ok væta dögurð minn;
skyldak launa kögursveini
þínum kanginyrði,
ef ek kœmumk yfir sundit.“

14. „Hèr mun ek standa
ok þín hèðan bíða;
fanntattu mann inn harðara
at Hrungni dauðan.“

15. „Hins vil ek nú geta,
er vit Hrungnir deildum,
sá inn stórúðgi jötunn,
er ór steini var höfuðit á;
þó lèt ek hann falla
ok fyrir hníga.
Hvat vanntu þá meðan, Hárbarðr?“

16. „Var ek með Fjölvari
fimm vetr alla
í ey þeirri
er Algrœn heitir;
vega vèr þar knáttum
ok val fella,
margs at freista,
mans at kosta.“

17. „Hversu snúnuðu yðr konur yðrar?“

18. „Sparkar áttu vèr konur,
ef oss at spökum yrði;
horskar áttu vèr konur,
ef oss hollar væri;
þær ór sandi
síma undu
ok ór dali djúpum
grund um grófu.
Varð ek þeim einn öllum
efri at ráðum,
hvíldak hjá þeim systrum sjau,
ok hafdak geð þeirra allt ok gaman.
Hvat vanntu þá meðan, Þórr?“

19. „Ek drap Þjaza,
inn þrúðmóðga jötun.
Upp ek varp augum
Ölvalda sonar
á þann inn heiða himin;
þau eru merki mest
minna verka,
þau er allir menn síðan um sè.
Hvat vanntu meðan, Hárbarðr?“

20. „Miklar manvèlar
ek hafða við myrkriður,
þá er ek vèlta þær frá verum;
harðan jötun hugðak
Hlèbarð vera,
gaf hann mèr gambantein,
en ek vèlta hann ór viti.“

21. „Illum huga launaðir þú þá góðar gjafar.“

22. „Þat hefir eik,
er af annarri skefr;
um sik er hverr í slíku.
Hvat vanntu meðan, Þórr?“

23. „Ek var austr,
ok jötna barðak
brúðir bölvísar,
er til bjargs gengu;
mikil mundi ætt jötna,
ef allir lifði,
vætr mundi manna
und miðgarði.
Hvat vanntu meðan, Hárbarðr?“

24. „Var ek á Vallandi,
ok vígum fylgdak,
attak jöfrum,
en aldri sættak.
Óðinn á jarla
þá er í val falla,
en Þórr á þræla kyn.“

25. „Ójafnt skipta er þú mundir

með ásum liði,
ef þú ættir vilgi mikils vald."
26. „Þór á afl œrit,
en ekki hjarta:
af hræzlu ok hugbleyði
þèr var í hanzka troðit,
ok þóttiskattu þá Þórr vera;
hvárki þú þá þorðir
fyr hræzlu þinni
físa nè hnjósa,
svá at Fjalarr heyrði."
27. „Hárbarðr inn ragi!
ek munda þik í hel drepa,
ef ek mætta seilask um sund."
28. „Hvat skyldir þú um sund seilask,
er sakir 'ru alls öngar?
Hvat vanntu þá, Þórr?"
29. „Ek var austr,
ok ána varðak,
þá er mik sóttu
þeir Svarangs synir;
grjóti þeir mik börðu,
gagni urðu*t* þeir lítt fegnir,
þó urðu þeir mik fyrri
friðar at biðja.
Hvat vanntu þá meðan, Hárbarðr?"
30. „Ek var austr,
ok við einherju dœmdak,
lèk ek við ina línhvítu,
ok launþing háðak,
gladdak ina gullbjörtu,
gamni mær undi."
31. „Góð áttu*ð* èr mankynni þar þá."
32. „Liðs þíns værak þá þurfi, Þórr!
at ek hèlda þeirri inni línhvítu mey."
33. „Ek munda þèr þat þá veita,
ef ek viðr of kœmumk."
34. „Ek munda þèr þá trúa,
nema þú mik í trygð vèltir."
35. „Emkat ek sá hælbítr,
sem húðskór forn á vár."
36. „Hvat vanntu meðan, Þórr?"
37. „Brúðir berserkja
barðak í Hlèseyju,
þær höfðu verst unnit,
vèlta þjóð alla."
38. „Klæki vanntu þá, Þórr!
er þú á konum barðir."
39. „Vargynjur þat váru,
en varla konur:
skeldu skip mitt,
er ek skorðat hafðak,
œgðu mèr járnlurki,
en eltu Þjálfa.
Hvat vanntu meðan, Hárbarðr?"
40. „Ek vark í hernum,
er hingat görðisk
gnæfa gunnfana,
geir at rjóða."
41. „Þess villtu nú geta,
er þú fórt oss óljúfan at bjóða."
42. „Bœta skal þèr þat þá
munda baugi,
sem jafnendr unnu,
þeir er okkr vilja sætta."
43. „Hvar namtu þessi
in hnœfiligu orð,
er heyrða*k* aldri
in hnœfiligri?"
44. „Nam ek at *ý*tum
þeim inum aldrœnum,
er búa í heimis-*h*augum."
45. „Þó gefr þú
gott nafn dysjum,
er þú kallar þær heimis-*hau*ga."
46. „Svá dœmi ek

um slíkt far.“
47. „Orðkringi þín
mun þèr illa koma,
ef ek ræð á vág at vaða:
úlfi hæra
hygg ek þik œpa munu,
ef þú hlýtr af hamri högg.“
48. „Sif á hó*r* heima,
hans muntu fund vilja,
þann muntu þrek drýgja,
þat er þèr skyldara.“
49. „Mælir þú at munns ráði,
svá at mèr skyldi verst þykkja,
halr inn hugblauði!
hygg ek, at þú ljúgir.“
50. „Satt hygg ek mik segja,
seinn ertu at för þinni,
langt mundir þú nú kominn, þórr!
ef þú litum fœrir.“
51. „Hárbarðr inn ragi!
heldr hefir þú nú mik dvaldan.“
52. „Ásaþó*r* hugða*k*
aldrigi mundu
glepja *far*hirði farar.“
53. „Ráð mun ek þèr nú ráða:
ró þú hingat bátinum!
hættum hœting*u*!
hittu föður Magna!“
54. „Farðu firr sundi!
þèr skal fars synja.“
55. „Vísa þú mèr nú leiðina!
alls þú vill mik eigi um váginn ferja.“
56. „Lítit er at synja,
langt er at fara:
stund er til stokksins,
önnur til steinsins;
haltu svá til vinstra vegsins,
unz þú hittir Verland!
þar mun Fjörgyn
hitta þór, son sinn,
ok mun hon kenna hánum áttunga brautir
til Óðins landa.“
57. „Mun ek taka þangat í dag?“
58. „Taka við víl ok erfiði
at uppverandi sólu, — er ek get þána.“
59. „Skamt mun nú mál okkat,
alls þú mèr skœtingu einni svarar;
launa mun ek þèr farsynjun,
ef vit finnumk í sinn annat.“
60. „Far þú nú þars
þik hafi allan gramir!“

# SKÍRNISFÖR

eða

## SKÍRNISMÁL.

---

Freyr sonr Njarðar hafði einn dag sezk í Hliðskjálf ok sá um heima alla; hann sá í jötunheima ok sá þar mey fagra, þá er hon gekk frá skála föður síns til skemmu; þar af fèkk hann hugsóttir miklar. Skírnir hèt skósveinn Freys; Njörðr bað hann kveðja Frey máls. Þá mælti Skaði:

1. „Rístu nú, Skírnir!
*skyntu* at beiða
okkarn mála mög:
ok þess at fregna,
hveim inn fróði sè
ofreiði afi!“

2. „Illra orða er mèr ón
at ykkrum syni,
ef ek geng at mæla við mög:
ok þess at fregna,
hveim inn fróði sè
ofreiði afi.“

3. „Segðu mèr þat, Freyr,
fólkvaldi goða!
ok ek vilja vita:
hví þú einn sitr
endlanga sali,
minn dróttinn! um daga?“

4. „Hví um segjak þèr,
seggr inn ungi!
mikinn móðtrega?
þvíat álfröðull
lýsir um alla daga,
ok þeygi at mínum munum.“

5. „Muni þína hykka*k*
svá mikla vera,
at þú mèr, seggr! ne segir;
þvíat ungir saman
várum í árdaga,
vel mættim tveir trúask.“

6. „Í Gýmis görðum
ek sá ganga
mèr tíða mey:
armar lýstu,
en af þaðan
allt lopt ok lögr.

7. Mær er mèr tíðari
manni hveim
ungum í árdaga;
ása ok álfa
þat vill engi maðr,
at vit samt sèm.“

8. „Mar gefðu mèr þá,
þann er mik um myrkvan beri
vísan vafrloga,
ok þat sverð,
er sjálft vegisk
við jötna ætt!“

9. „Mar ek þèr þann gef,
er þik um myrkvan berr
vísan vafrloga,

ok þat sverð,
er sjálft mun vegask,
ef sá er horskr, er hefir.“
Skírnir mælti við hestinn:
10. „Myrkt er úti,
mál kveð ek okkr fara
úrig fjöll yfir,
þursa þjóðar *til*;
báðir vit komumk,
eða okkr báða tekr
sá inn ámátki jötunn.“

Skírnir reið í jötunheima til Gýmis garða. Þar váru hundar ólmir ok bundnir fyr skíðgarðs hliði, þess er um sal Gerðar var. Hann reið at þar er fèhirðir sat á haugi ok kvaddi hann:

11. „Segðu þat, hirðir!
er þú á haugi sitr
ok varðar alla vega:
hve ek at andspilli komumk
ins unga mans
fyr greyjum Gýmis?“
12. „Hvárt ertu feigr
eða ertu framgenginn?
*maðr á mars baki*!
andspillis vanr
þú skalt æ vera
góðrar meyjar Gýmis.“
13. „Kostir 'ru betri
heldr enn at klökkva sè
hveim er fúss er fara;
einu dœgri
mèr var aldr um skapaðr
ok allt líf um lagit.“
Gerðr kvað:
14. „Hvat er þat hlym hlymja,
er ek hlymja heyri nú til
ossum rönnum í?
jörð bifask,
en allir fyrir
skjálfa garðar Gýmis.“
Ambátt kvað:
15. „Maðr er hèr úti
stiginn af mars baki,
jó lætr til jarðar taka.“
16. „Inn bið þú hann ganga
í okkarn sal
ok drekka inn mæra mjöð!
þó ek hitt óumk,
at hèr úti sè
minn bróðurbani. —
17. Hvat er þat álfa
nè ása sona
nè víssa vana?
hví þú einn um komt
eikinn fúr yfir,
ór salkynni at sjá?“
18. „Emkat ek álfa
nè ása sona
nè víssa vana;
þó ek einn um komk
eikinn fúr yfir,
yðr salkynni at sjá.
19. Epli ellifu
hèr hefik algullin,
þau mun ek þèr, Gerðr! gefa,
frið at kaupa,
at þú þèr Frey kveðir
óleiðastan lifa.“
20. „Epli ellifu
ek þigg aldrigi
at mannskis munum;
nè vit Freyr,
meðan okkart fjör lifir,
byggjum bæði saman.“
21. „Baug ek þèr þá gef,
þann er brendr var
með ungum Óðins syni:
átta 'ru jafnhöfgir,

er af drjúpa
ina níunda hverja nótt."
22. „Baug ek þikkak,
þótt brendr sè
með ungum Óðins syni:
era mèr gulls vant
í görðum Gýmis,
at deila fè föður."
23. „Sèr þú þenna mæki, mær!
mjóvan, málfán,
er ek hefi í hendi hèr?
höfuð höggva
ek mun þèr hálsi af,
nema þú mèr sætt segir."
24. „Ánauð þola
ek vil aldrigi
at mannskis munum;
þó ek hins get,
ef it Gýmir finnizk
vígs ótrauðir, at ykkr vega tíði."
25. „Sèr þú þenna mæki, mær!
mjóvan, málfán,
er ek hefi í hendi hèr?
fyr þessum eggjum
hnígr sá inn aldni jötunn,
verðr þinn feigr faðir.
26. Tams vendi ek þik drep,
en ek þik temja mun,
mær! at mínum munum;
þar skaltu ganga,
er þik gumna synir
síðan æva sè.
27. Ara þúfu á
skaltu ár sitja,
horfa heimi ór
snugga heljar til;
matr sè þèr meirr leiðr,
en manna hveim
inn fráni ormr með fírum!
28. At undrsjónum þú verðir,
er þú út kemr,
á þik Hrímnir hari,
á þik hotvetna stari!
víðkunnari þú verðir,
en vörðr með goðum!
gapi þú grindum frá!
29. Tópi ok ópi,
tjösull ok óþoli,
vaxi þèr tár með trega!
seztu niðr!
en ek mun segja þèr
sváran súsbreka
ok tvennan trega.
30. Tramar gneypa
þik skulu gerstan dag
jötna görðum í;
til hrímþursa hallar
þú skalt hverjan dag
kranga kostalaus,
kranga kostavön;
grát at gamni
skaltu í gögn hafa
ok leiða með tárum trega.
31. Með þursi þríhöfðuðum
þú skalt æ nara,
eða verlaus vera;
þitt geð grípi
þik, mörn mörna!
verðu sem þistill,
sá er var þrunginn
í önn ofanverða!
32. Til holts ek gekk
ok til hrás viðar,
gambantein at geta,
gambantein ek gat.
33. Reiðr er þèr Óðinn,
reiðr er þèr ása bragr,
þik skal Freyr fjásk;
in firinilla mær!
en þú fengit hefir

gambanreiði goða.
34. Heyri jötnar,
heyri hrímþursar,
synir Suttunga,
† sjálfir ásliðar:
hve ek fyrir-býð,
hve ek fyrir-banna
manna glaum mani,
manna nyt mani!
35. Hrímgrímnir heitir þurs,
er þik hafa skal
fyr nágrindr neðan;
† þar þèr vílmegir
á viðar rótum
geita hland gefi!
œðri drykkja
fá þú aldrigi,
mær, af þínum munum,
mær, at mínum munum!
36. þurs ríst ek þèr
ok þrjá stafi:
ergi ok œði ok óþola;
svá ek þat af ríst,
sem ek þat á reist,
ef görask þarfar þess."
37. „Heill verðu nú heldr, sveinn!
ok tak við hrímkalki
fullum forns mjaðar!
þó hafðak þat ætlat,
at myndak aldrigi
unna vaningja vel."
38. „Örindi mín
vil ek öll vita,
áðr ek ríða heim hèðan:
nær þú á þingi
munt inum þroska
nenna Njarðar syni?"
39. „Barri heitir,
er vit bæði vitum,
lundr lognfara:
en ept nætr níu
þar mun Njarða*r* syni
Gerðr unna gamans."
þá reið Skírnir heim; Freyr stóð úti ok kvaddi hann ok spurði tíðinda:
40. „Segðu mèr þat, Skírnir!
áðr þú verpir söðli af mar
ok þú stígir feti framarr:
hvat þú árnaðir
í jötunheima
þíns eða míns munar?"
41. „Barri heitir,
er vit báðir vitum,
lundr lognfara:
en ept nætr níu
þar mun Njarðar syni
Gerðr unna gamans."
42. „Löng er nótt,
langar 'ru tvær,
hve um þreyjak þrjár!
opt mèr mánaðr
minni þótti,
en sjá hálf hýnótt."

# VAFÞRÚÐNISMÁL.

---

1. „Ráð þú mèr nú, Frigg!
alls mik fara tíðir
at vitja Vafþrúðnis;
forvitni mikla
kveð ek mèr á fornum stöfum
við þann inn alsvinna jötun.“
2. „Heima letja
ek munda Herjaföðr
í görðum goða;
þvíat engi jötun
ek hugða jafnramman
sem Vafþrúðni vera.“
3. „Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaða*k*
fjöld ek *um* reynda regin;
hitt vil ek vita,
hve Vafþrúðnis
salakynni sè.“
4. „Heill þú farir!
heill þú aptr komir!
heill þú á sinnum sèr!
œði þèr dugi,
hvars þú skalt, Aldaföðr,
orðum mæla jötun!“
5. Fór þá Óðinn
at freista orðspeki
þess ins alsvinna jötuns;
at höllu hann kom,
ok átti Íms faðir,
inn gekk Yggr þegar.
6. „Heill þú nú, Vafþrúðnir!
nú em ek í höll kominn
á þik sjálfan sjá;
hitt vil ek fyrst vita,
ef þú fróðr sèr
eða alsviðr, jötunn!“
7. „Hvat er þat manna,
er í mínum sal
verpumk orði á?
út þú ne kemr
órum höllum frá,
nema þú inn snotrari sèr.“
8. „Gagnráðr ek heiti,
nú emk af göngu kominn
þyrstr til þinna sala:
laðar þurfi
— hefi*k* lengi farit —
ok þinna andfanga, jötunn!“
9. „Hví þú þá, Gagnráðr!
mælisk af gólfi fyr?
farðu í sess í sal!
þá skal freista,
hvárr fleira viti,
gestr eða inn gamli þulr.“
10. „Óauðigr maðr,
er til auðigs kemr,
mæli þarft eða þegi!
ofrmælgi mikil
hygg ek at illa geti
hveim er við kaldrifjaðan kemr.“
11. „Segðu mèr, Gagnráðr!
alls þú á gólfi vill
þíns um freista frama:
hve sá hestr heitir,

er hverjan dregr
dag *of* dróttmögu?"
12. „Skinfaxi heitir,
er inn skíra dregr
dag um dróttmögu;
hesta beztr
þykkir hann með *H*reiðgotum,
ey lýsir mön af mari."
13. „Segðu þat, Gagnráðr!
alls þú á gólfi vill
þíns um freista frama:
hve sá jór heitir,
er austan dregr
nótt *of* nýt regin?"
14. „Hrímfaxi heitir,
er hverja dregr
nótt *of* nýt regin;
mèldropa fellir hann
morgin hvern,
þaðan kemr dögg um dala."
15. „Segðu þat, Gagnráðr!
alls þú á gólfi vill
þíns um freista frama:
hve sú á heitir,
er deilir með jötna sonum
grund ok með goðum?"
16. „Ifing heitir á,
er deilir með jötna sonum
grund ok með goðum;
opin renna
hon skal um aldrdaga,
verðrat íss á á."
17. „Segðu þat, Gagnráðr!
alls þú á gólfi vill
þíns um freista frama:
hve sá völlr heitir,
er finnask vígi at
Surtr ok in svásu goð?"
18. „Vígríðr heitir völlr,
er finnask vígi at
Surtr ok in svásu goð;
hundrað rasta
hann er á hverjan veg,
sá er þeim völlr vitaðr."
19. „Fróðr ertu nú, gestr!
far þú á bekk jötuns!
ok mælumk í sessi saman!
höfði veðja
vit skulum höllu í,
gestr! um geðspeki."

20. „Segðu þat it eina,
ef þitt œði dugir,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan jörð um kom
eða upphiminn
fyrst? inn fróði jötunn!"
21. „Ór Ýmis holdi
var jörð um sköpuð,
en ór beinum björg,
himinn ór hausi
ins hrímkalda jötuns,
en ór sveita sjór."
22. „Segðu þat annat,
ef þitt œði dugir,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan máni um kom,
sá er ferr menn yfir,
eða sól it sama?"
23. „Mundilfœri heitir,
hann er Mána faðir
ok svá Sólar it sama;
himin hverfa
þau skulu hverjan dag
öldum at ártali."
24. „Segðu þat it þriðja,
alls þik svinnan kveða,
*ef* þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan dagr um kom,

sá er ferr drótt yfir,
eða nótt með niðum?"
25. „Dellingr heitir,
hann er Dags faðir,
en Nótt var Nörvi borin;
ný ok nið
skópu nýt regin
öldum at ártali."
26. „Segðu þat it fjórða,
alls þik fróðan kveða,
ef þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan vetr um kom
eða varmt sumar
fyrst með fróð regin?"
27. „Vindsvalr heitir,
hann er Vetrar faðir,
en Svásuðr Sumars:
*er sá sællífr,*
*en svölu brjósti rædr*
*Vásuðr, Vindsvals fadir.*"
28. „Segðu þat it fimta,
alls þik fróðan kveða,
ef þú, Vafþrúðnir, vitir:
hverr ása elztr
eða Ýmis niðja
yrði í árdaga?"
29. „Örófi vetra
áðr væri jörð um sköpuð,
þá var Bergelmir borinn:
Þrúðgelmir
var þess faðir,
en Aurgelmir afi."
30. „Segðu þat it sètta,
alls þik svinnan kveða,
ef þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan Aurgelmir kom
með jötna sonum
fyrst? inn fróði jötunn!"
31. „Ór Elivágum
stukku eitrdropar,
svá óx, unz ór varð jötunn;
[þar órar ættir
kómu allar saman,
því er þat æ allt til atalt]."
32. „Segðu þat it sjaunda,
alls þik svinnan kveða,
ef þú, Vafþrúðnir, vitir:
hve sá börn *um* gat
inn baldni jötunn,
er hann hafðit gýgjar gaman?"
33. „Undir hendi vaxa
kváðu hrímþursi
mey ok mög saman;
fótr við fœti gat
ins fróða jötuns
sexhöfðaðan son."
34. „Segðu þat it átta,
alls þik svinnan kveða,
ef þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvat þú fyrst of mant
eða fremst of veizt?
þú ert alsviðr, jötunn!"
35. „Örófi vetra
áðr væri jörð um sköpuð,
þá var Bergelmir borinn:
þat ek fyrst um man,
er sá inn fróði jötunn
á var lúðr um lagiðr."
36. „Segðu þat it níunda,
alls þik svinnan kveða,
ef þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan vindr um kemr,
sá er ferr vág yfir?
æ menn hann sjálfan um sjá."
37. „Hræsvelgr heitir,
er sitr á himins enda,
jötunn í arnar ham:
af hans vængjum
kveða vind koma
alla menn yfir."

38. „Segðu þat it tíunda,
alls þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan Njörðr um kom
†með ása sonum?
— hofum ok hörgum
hann ræðr hundmörgum —
ok varðat hann ásum alinn.“
39. „Í vanaheimi
skópu hann vís regin,
ok seldu at gíslingu goðum;
í aldar rök
hann mun aptr koma
heim með vísum vönum.“
40. „Segðu þat it ellipta,
alls þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir:
hvar ýtar hverjan dag
höggvask túnum í,
sitja meirr um sáttir saman?“
41. „Allir ei*n*herjar
Óðins túnum í
höggvask hverjan dag;
val þeir kjósa
ok ríða vígi frá,
sitja meirr um sáttir saman.“
42. „Segðu þat it tólpta:
hví þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir?
frá jötna rúnum
ok allra goða
segir þú it sannasta,
inn alsvinni jötunn!“
43. „Frá jötna rúnum
ok allra goða
ek kann segja satt;
þvíat hvern hefi*k*
heim um komit:
†níu kom ek heima,
fyr Niflhel neðan,
hinnig deyja ór helju halir.“

---

44. „Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek um reynda regin:
hvat lifir manna,
þá er inn mæra líðr
fimbulvetr með fírum?“
45. „Líf ok Lífþrasir,
en þau leynask munu
í holti Hoddmímis;
morgindöggvar
þau sèr at mat hafa,
en þaðan af aldir alask.“
46. „Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek um reynda regin:
hvaðan kemr sól
á inn slètta himin,
þá er þessa hefir Fenrir farit?“
47. „Eina dóttur
berr Álfröðull,
áðr hana Fenrir fari;
sú skal ríða,
þá er regin deyja,
móður brautir mær.“
48. „Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek um reynda regin:
hverjar 'ru þær meyjar,
er líða mar yfir,
fróðgeðjaðar fara?“
49. „Þrjár þjóð*ar*
fa*ra* þorp yfir
meyja Mögþrasis;
hamingjur einar
þær er í heimi eru,
þó þær með jötnum alask.“
50. „Fjöld ek fór,

fjöld ek freistaðak,
fjöld ek um reynda regin:
hverir ráða æsir
eignum goða,
þá er sloknar Surta logi?"
51. „Viðarr ok Vali
byggja vè goða,
þá er sloknar Surta logi;
Móði ok Magni
skulu Mjöllni hafa
Vingnis at vígþroti."
52. „Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek um reynda regin:
hvat verðr Óðni
at aldrlagi,
þá er um rjúfask regin?"
53. Úlfr gleypa mun
Aldaföðr,
þess mun Viðarr *v*reka:
kalda kjapta
hann klyfja mun
vitnis vígi at."
54. „Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek um reynda regin:
hvat mælti Óðinn,
áðr á bál stigi,
sjálfr í eyra syni?"
55. „Ey manni þat veit,
hvat þú í árdaga
sagðir í eyra syni.
Feigum munni
mælta*k* mína forna stafi
ok um ragna rök.
Nú ek við Óðin deildak
mína orðspeki.
þú ert æ vísastr vera."

# GRÍMNISMÁL.

Hrauðungr konungr átti tvá sonu, hèt annarr Agnarr, en annarr Geirröðr. Agnarr var tíu vetra, en Geirröðr átta vetra. þeir reru tveir á báti með dorgar sínar at smáfiski. Vindr rak þá í haf út. I náttmyrkri brutu þeir við land ok gengu upp, fundu kotbónda einn; þar váru þeir um vetrinn. Kerling fóstraði Agnar, en karl fóstraði Geirröð ok kendi hánum ráð. At vári fèkk karl þeim skip. En er þau kerling leiddu þá til strandar, þá mælti karl einmæli við Geirröð. þeir fengu byr ok kvámu til stöðva föður síns. Geirröðr var fram í skipi; hann hljóp upp á land, en hratt út skipinu ok mælti: „Far þú nú þar er smyl hafi þik!“ Skipit rak í haf út. En Geirröðr gekk upp til bœjar, hánum var þar vel fagnat, en faðir hans var þá andaðr. Var þá Geirröðr til konungs tekinn ok varð maðr ágætr.

Óðinn ok Frigg sátu i Hliðskjálfu ok sá um heima alla. Óðinn mælti: „Sér þú Agnar fóstra þinn, hvar hann elr börn við gýgi í hellinum? En Geirröðr fóstri minn er konungr ok sitr nú at landi.“ Frigg segir: „Hann er matníðingr sá, at hann kvelr gesti sína, ef hánum þykkja ofmargir koma.“ Óðinn segir, at þat er in mesta lygi; þau veðja um þetta mál. Frigg sendi eskimey sína Fullu til Geirröðar. Hon bað konung varask, at eigi fyr-gerði hánum fjölkunnigr maðr sá er þar var kominn í land, ok sagði þat mark á, at engi hundr var svá ólmr, at á hann mundi hlaupa. En þat var inn mesti hègómi, at Geirröðr konungr væri eigi matgóðr; ok þó lætr hann handtaka þann mann, er eigi vildu hundar á ráða. Sá var í feldi blám ok nefndisk Grímnir ok sagði ekki fleira frá sèr, þótt han væri at spurðr. Konungr lèt hann pína til sagna ok setja milli elda tveggja, ok sat hann þar átta nætr. Geirröðr konungr átti þá son tíu vetra gamlan, ok hèt Agnarr eptir bróður hans. Agnarr gekk at Grímni ok gaf hánum horn fullt at drekka ok sagði, at faðir hans görði illa, er hann píndi þenna mann saklausan. Grímnir drakk af; þá var eldrinn svá kominn, at feldrinn brann af Grímni. Hann kvað:

1. „Heitr ertu, hripuðr!
   ok heldr til mikill;
   göngumk firr, funi!
   loði sviðnar,

þótt ek á lopt berak,
brennumk feldr fyrir.

2. Átta nætr sat ek
milli elda hèr,
svá at mèr manngi mat ne bauð,
nema einn Agnarr,
er einn skal ráða,
Geirröðar sonr, Gotna landi.

3. Heill skaltu, Agnarr!
alls þik heilan biðr
Veratýr vera;
eins drykkjar
þú skalt aldrigi
betri gjöld *um* geta.

4. Land er heilakt,
er ek liggja sè
ásum ok álfum nær;
en í þrúðheimi
skal þórr vera,
unz um rjúfask regin.

5. Ýdalir heita
þar er Ullr hefir
sèr um görva sali;
Álfheim Frey
gáfu í árdaga
tívar at tannfè.

6. Bœr er sá inn þriði,
er blíð regin
silfri þöktu sali;
Valaskjálf heitir,
er vælti sèr
áss í árdaga.

7. Sökkvabekkr heitir inn fjórði,
en þar svalar knegu
unnir yfir glymja;
þar þau Óðinn ok Sága
drekka um alla daga
glöð ór gullnum kerum.

8. Glaðsheimr heitir inn fimti,
þars in gullbjarta
Valhöll víð of þrumir;
en þar Hroptr kýss
hverjan dag
vápndauða vera.

9. Mjök er auðkent
þeim er til Óðins koma
salkynni at sjá:
sköptum er rann rept,
skjöldum er salr þakiðr,
brynjum um bekki strát.

10. Mjök er auðkent
þeim er til Óðins koma
salkynni at sjá:
vargr hangir
fyr vestan dyrr,
ok drúpir örn yfir.

11. þrymheimr heitir inn sètti,
er þjazi bjó,
sá inn ámátki jötunn;
en nú Skaði byggvir,
skír brúðr goða,
fornar toptir föður.

12. Breiðablik eru in sjaundu,
en þar Baldr hefir
sèr um gerva sali;
á því landi
er ek liggja veit
fæsta feiknstafi.

13. Himinbjörg eru in áttu,
en þar Heimdall
kveða valda vèum;
þar vörðr goða
drekkr í væru ranni
glaðr inn góða mjöð.

14. Fólkvangr er inn níundi,
en þar Freyja ræðr
sessa kostum í sal:
hálfan val hon kýss
hverjan dag,
en hálfan Óðinn á.

15. Glitnir er inn tíundi,
hann er gulli studdr
ok silfri þaktr it sama;
en þar Forseti byggvir
flestan dag
ok svæfir allar sakir.
16. Nóatún eru in elliptu,
en þar Njörðr hefir
sèr um görva sali;
manna þengill
inn meinsvani
hátimbruðum hörgi ræðr.
17. Hrísi vex
ok há grasi
Viðars land Viði;
en þar mögr of læzk
af mars baki
frœkn *at* hefna föður.
18. Andhrímnir lætr
í Eldhrímni
Sæhrímni soðinn:
fleska bezt,
en þat fáir vitu,
við hvat einherjar alask.
19. Gera ok Freka
seðr gunntamiðr
hróðigr Herjaföðr;
en við vín eitt
vápngöfugr
Óðinn æ lifir.
20. Huginn ok Muninn
fljúga hverjan dag
jörmungrund yfir;
óumk ek of Hugin,
at hann aptr ne komit,
þó sjámk meirr um Munin.
21. Þýtr Þund,
unir þjóðvitnis
fiskr flóði í;
árstraumr þykkir
ofmikill
valglaumi at vaða.
22. Valgrind heitir,
er stendr velli á
heilug fyr helgum durum;
forn er sú grind,
en þat fáir vitu,
hve hon er í lás um lokin.
23. Fimm hundruð dura
ok um fjórum togum,
svá hygg ek á Valhöllu vera;
átta hundruð einherja
ganga senn ór einum durum,
þá er þeir fara við vitni at vega.
24. Fimm hundruð gólfa
ok um fjórum togum,
svá hygg ek Bilskírni með bugum;
ranna þeirra,
er ek rept vita,
míns veit ek mest magar.
25. Heiðrún heitir geit,
er stendr höllu á †Herjaföðrs
ok bítr af Læráðs limum;
skapker fylla hon skal
ins skíra mjaðar,
knáat sú veig vanask.
26. Eikþyrnir heitir hjörtr,
er stendr *höllu á †Herjaföðrs
ok bítr af Læráðs limum;
en af hans hornum
drýpr í Hvergelmi,
þaðan eigu vötn öll vega.
27. Síð ok Víð,
Sækin ok Ækin,
†Svöl ok Gunnþró,
Fjörm ok Fimbulþul,
Rín ok Rennandi,
Gipul ok Göpul,
Gömul ok Geirvimul, —

þær hverfa um hodd goða;
þyn ok Vin,
þöll ok Höll,
Gráð ok Gunnþorinn.
28. Vína heitir enn
önnur Vegsvinn,
þriðja þjóðnuma;
†Nyt ok Naut,
Nönn ok Hrönn,
Slíð ok Hríð
Sylgr ok Ylgr,
Víð ok Ván,
Vönd ok Strönd, —
Gjöll ok Leiptr,
þær falla gumnum nær,
en falla til heljar hèðan.
29. Körmt ok Örmt
ok Kerlaugar tvær,
þær skal þórr vaða,
dag hvern
er hann dœma ferr
at aski Yggdrasils;
þvíat ásbrú
brenn öll loga,
heilug vötn hlóa.
30. Glaðr ok Gyllir,
Gler ok Skeiðbrímir,
Silfrintoppr ok Sinir,
Gísl ok Falhófnir,
Gulltoppr ok Lèttfeti,
þeim ríða æsir jóm,
dag hvern
er þeir dœma fara
at aski Yggdrasils.
31. þrjár rœtr standa
á þrjá vega
undan aski Yggdrasils:
Hel býr und einni,
annarri hrímþursar,
þriðju menskir menn.
32. Ratatoskr heitir íkorni,
er renna skal
at aski Yggdrasils:
arnar orð
hann skal ofan bera
ok segja Níðhöggvi niðr.
33. Hirtir 'ru ok fjórir,
þeirs af hefingar á
gaghálsir gnaga:
Dáinn *heitir einn*,
ok Dvalinn *annarr*,
Duneyrr ok Duraþrór.
34. Ormar fleiri liggja
und aski Yggdrasils,
en þat of hyggi hverr ósviðra apa:
Góinn ok Móinn,
þeir 'ru Grafvitnis synir,
Grábakr ok Grafvölluðr,
Ofnir ok Sváfnir
hygg ek at æ skyli
meiðs kvistu má.
35. Askr Yggdrasils
drýgir erfiði
meira en menn of viti:
hjörtr bítr ofan,
en á hliðu fúnar,
skerðir Níðhöggr neðan.
36. Hrist og Mist
vil ek at mèr horn beri,
Skeggjöld ok Skögul;
Hildr ok þrúðr,
Hlökk ok Herfjötur,
Göll ok Geirönul,
Randgríð ok Ráðgríð
ok Reginleif:
þær bera einherjum öl.
37. Árvakr ok Alsviðr
þeir skulu upp hèðan
svangir sól draga;

en und þeirra bógum
fálu blíð regin,
æsir, ísarnkul.
38. Svalinn heitir,
hann stendr sólu fyr,
skjöldr, skínanda goði;
björg ok brim
ek veit at brenna skulu,
ef hann fellr ífrá.
39. Sköll heitir úlfr,
er fylgir inu skírleita goði
til varna viðar;
en annarr Hati,
hann er Hróðvitnis sonr,
sá skal fyr heiða brúði himins.
40. Ór Ýmis holdi
var jörð um sköpuð,
en ór sveita sær,
björg ór beinum,
baðmr ór hári,
en ór hausi himinn.
41. En ór hans brám
gerðu blíð regin
miðgarð manna sonum;
en ór hans heila
váru þau in harðmóðgu
ský öll um sköpuð.
42. Ullar hylli hefir
ok allra goða
hverr er tekr fyrstr á funa;
þvíat opnir heimar
verða um ása sonum,
þá er hefja af hvera.
43. Ívalda synir
gengu í árdaga
Skíðblaðni at skapa,
skipa bezt,
skírum Frey,
nýtum Njarðar bur.
44. Askr Yggdrasils
hann er œztr viða,
en Skíðblaðnir skipa,
Óðinn ása,
en jóa Sleipnir,
Bilröst brúa,
†en Bragi skálda,
Hábrók hauka,
en hunda Garmr,
en Brímir *branda*.
45. Svipum hefi*k* nú ypt
fyr sigtíva sonum,
við þat skal vilbjörg vaka:
öllum ásum
þat skal inn koma
Œgis bekki á,
Œgis drekku at.
46. Hètumk Grímr,
hètumk Gangleri,
Herjan ok Hjálmberi,
þekkr ok þriði,
þuðr ok Uðr,
Helblindi ok Hár*r*.
47. Saðr ok Svipall
ok Sanngetall,
Herteitr ok Hnikarr,
† Bileygr, B*ö*leygr,
Bölverkr, Fjölnir,
Grímr ok Grímnir,
Glapsviðr ok Fjölsviðr.
48. Síðhöttr, Síðskeggr,
Sigföðr, Hnikuðr,
Alföðr, Valföðr,
Atríðr ok Farmatýr; —
einu nafni
hètumk aldrigi,
síz ek með fólkum fór.
49. †Grímni mik hètu
at Geirraðar,
en Jálk at Ásmundar,
en þá Kjalar,

er ek kjálka dró,
þrór þingum at,
Viðurr at vígum,
Óski ok Ómi,
Jafnhár ok Biflindi,
Gõndlir ok Hárbarðr með goðum.

50. Sviðurr ok Sviðrir
er ek hèt at Sökkmímis,
ok duldak þann inn aldna jötun,
þá er ek Miðvitnis vark
ins mæra burar
orðinn einbani.

51. Õlr ertu, Geirröðr!
hefir þú ofdrukkit,
miklu ertu hnugginn, er þú ert mínu gengi,
öllum einherjum ok Óðins hylli.

52. Fjöld ek þèr sagðak,
en þú fátt um mant,
of þik vèla vinir:
mæki liggja
ek sè míns vinar
allan í dreyra drifinn.

53. Eggmóðan val
nú mun Yggr hafa,
þitt veit ek líf um liðit;
ú*f*ar 'ru dísir,
nú knáttu Óðin sjá,
nálgastu mik, ef þu megir!

54. Óðinn ek nú heiti,
Yggr ek áðan hèt,
hètumk þundr fyrir þat,
Vakr ok Skilfingr,
Váfuðr ok Hroptatýr,
Gautr ok Jálkr með goðum,
Ofnir ok Sváfnir,
er ek hygg at orðnir sè
allir af einum mèr."

Geirröðr konungr sat ok hafði sverð um knè sèr ok brugðit til miðs. En er hann heyrði, at Óðinn var þar kominn, þá stóð hann upp ok vildi taka Óðin frá eldinum. Sverðit slapp ór hendi hánum, ok vissu hjöltin niðr; konungr drap fœti ok steyptisk áfram, en sverðit stóð í gögnum hann, ok fèkk hann bana. Óðinn hvarf þá. En Agnarr var þar konungr lengi síðan.

# ALVÍSSMÁL.

1. „Bekki breiða
   nú skal brúðr með mèr
heim í sinni snúask;
   hratat um mægi
   mun hverjum þykkja,
heima skalat hvíld nema.“
2. „Hvat er þat fíra?
   hví ertu svá fölr um nasar?
vartu í nótt með ná?
   þursa líki
   þykki mèr á þèr vera;
ertattu til brúðar borinn.“
3. „Alvíss ek heiti,
   bý ek fyr jörð neðan,
á ek undir steini stað;
   vagna vers
   ek em á vit kominn;
bregði engi föstu heiti fíra!“
4. „Ek mun bregða,
   þvíat ek brúðar á
flest um ráð sem faðir;
   varka*t* ek heima,
   þá er þèr heitit var
at *fá* einn *þ*èr gj*aforð* með goðum.“
5. „Hvat er þat rekka,
   er í ráðum telsk
fljóðs ins fagrglóa?
   fjarrafleina
   þik munu fáir kunna,
hverr hefir þik baugum borit?“
6. „Vingþórr ek heiti,
   ek hefi víða ratat,
sonr em ek Síðgrana;
   at ósátt minni skal*at*tu
   þat it unga man hafa
ok þat gjaforð geta.“
7. „Sáttir þínar
   er ek vil snemma hafa
ok þat gjaforð geta;
   eiga vilja*k* heldr
   en án vera
þat it mjallhvíta man.“
8. „Meyjar ástum
   muna þèr verða,
vísi gestr! of varit:
   ef þú ór heimi kant
   hverjum at segja
allt þat er ek vil vita.“
9. („*Freista máttu, Vingþórr!*
   *alls þú frekr ert*
*dvergs at reyna dug*;
   *heima alla níu*
   *hefik of farit*
*ok vitat vætna hvat.*“)
10. „Segðu mèr þat, Alvíss!
   öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
   hve sú jörð heitir,
   er liggr fyr alda sonum,
heimi hverjum í?“
11. „Jörð heitir með mönnum,
   en med á*s*um fold,
kalla vega vanir,
   ígrœn jötnar,
   álfar gróandi,

kalla aur uppregin."
12. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sá himinn heitir,
*inn Hlóru* kendi,
heimi hverjum í?"
13. „Himinn heitir með mönnum,
en hlýrnir með goðum,
kalla vindofni vanir,
uppheim jötnar,
álfar fagra ræfr,
dvergar drjúpan sal."
14. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hv*e* *sá* máni heitir,
*er menn sjá,
heimi hverjum í?"
15. „Máni heitir með mönnum,
en mylinn með goðum,
kalla hverfanda hvel helju í,
skyndi jötnar,
en skin dvergar,
kalla álfar ártala."
16. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sú sól heitir,
er sjá alda synir,
heimi hverjum í?"
17. „Sól heitir með mönnum,
en sunna með goðum,
kalla dvergar Dvalins leik*u*,
eygló jötnar,
álfar fagra hvel,
alskír ása synir."
18. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve þau ský heita,
er skúrum blandask,
heimi hverjum í?"
19. „Ský heita með mönnum,
en skúrván med goðum,
kalla vindflot vanir,
úrván jötnar,
álfar veðrmegin,
kalla í helju hjálm huliðs."
20. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sá vindr heitir,
er víðast ferr,
heimi hverjum í?"
21. „Vindr heitir með mönnum,
en váfuðr með goðum,
kalla gneggjuð ginnregin,
œpi jötnar,
álfar dynfara,
kalla í helju hviðuð."
22. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve þat logn heitir,
er liggja skal,
heimi hverjum í?"
23. „Logn heitir með mönnum,
en lægi með goðum,
kalla vindslot vanir,
ofhlý jötnar,
álfar dagsefa,
kalla dvergar dags veru."
24. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sá marr heitir,
er menn róa,
heimi hverjum í?"
25. „Sær heitir með mönnum,

en sílægja með goðum,
kalla vág vanir,
álheim jötnar,
álfar lagastaf,
kalla dvergar djúpan mar."
26. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sá eldr heitir,
er brenn fyr alda sonum,
heimi hverjum í?"
27. „Eldr heitir með mönnum,
en með ásum funi,
kalla vag vanir,
frek*a* jötnar,
en forbrenni dvergar,
kalla í helju hröðuð."
28. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sá viðr heitir,
er vex fyr alda sonum,
heimi hverjum í?"
29. „Viðr heitir með mönnum,
en vallar fa*x* með goðum,
kalla hlí*ð*þang halir,
eldi jötnar,
álfar fagrlima,
kalla vönd vanir."
30. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve sú nótt heitir,
in Nörvi kenda,
heimi hverjum í?"
31. „Nótt heitir með mönnum,
en njól með goðum,
kalla grímu ginnregin,
óljós jötnar,
álfar svefngaman,
kalla dvergar draumnjörun."
32. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve þat sáð heitir,
er sá alda synir,
heimi hverjum í?"
33. „Bygg heitir með mönnum,
en barr með goðum,
kalla v*ö*xt vanir,
æti jötnar,
álfar lagastaf,
kalla í helju hnipinn."
34. „Segðu mèr þat, Alvíss!
öll of rök fíra
vörumk, dvergr! at vitir:
hve þat öl heitir,
er drekka alda synir,
heimi hverjum í?"
35. „Öl heitir með mönnum,
en með ásum bjórr,
kalla veig vanir,
hreina lög jötnar,
en í helju mjöð,
kalla sumbl Suttungs synir."
36. „Í einu brjósti
ek sák aldrigi
fleiri forna stafi. —
Miklum tálum
ek kveð tældan þik:
uppi ertu, dvergr! um dagaðr,
nú skínn sól í sali."

---

# HÁVAMÁL.

1. Gáttir allar,
áðr gangi fram,
um skoðask skyli,
um skygnask skyli;
þvíat óvíst er at vita,
hvar óvinir sitja
á fleti fyrir.
2. Gefendr heilir!
gestr er inn kominn,
hvar skal sitja sjá?
mjök er bráðr
sá er á bröndum skal
síns um freista frama.
3. Elds er þörf
þeims inn er kominn
ok á knè kalinn;
matar ok váða
er manni þörf
þeim er hefir um fjall farit.
4. Vatns er þörf
þeim er til verðar kemr,
þerru ok þjóðlaðar,
góðs um œðis,
ef sèr geta mætti,
orðs ok endrþögu.
5. Vits er þörf
þeim er víða ratar,
dælt er heima hvat;
at augabragði verðr
sá er ekki kann
ok með snotrum sitr.
6. At hyggjandi sinni
skylit maðr hrœsinn vera,
heldr gætinn at geði;
þá er horskr ok þögull
kemr heimisgarða til,
sjaldan verðr víti vörum;
† þvíat óbrigðra vin
fær maðr aldrigi,
en mannvit mikit.
7. Inn vari gestr,
er til verðar kemr,
þunnu hljóði þegir:
eyrum hlýðir,
en augum skoðar,
svá nýsisk fróðra hverr fyrir.
8. Hinn er sæll,
er sèr um getr
lof ok líknstafi;
ódælla er við þat,
er maðr eiga skal
annars brjóstum í.
9. Sá er sæll,
er sjálfr um á
lof ok vit, meðan lifir;
þvíat ill ráð
hefir maðr opt þegit
annars brjóstum ór.
10. Byrði betri
berrat maðr brautu at,
en sè mannvit mikit:
auði betra
þykkir þat í ókunnum stað,
slíkt er válaðs vera.
11. Byrði betri
berrat maðr brautu at,
en sè mannvit mikit;.
vegnest verra

vegra hann velli at,
en sè ofdrykkja öls.
12. Era svá gott,
sem gott kveða,
öl alda sonum:
því at færa veit,
er fleira drekkr,
síns til geðs gumi.
13. Óminnis hegri heitir
sá er yfir öldrum þrumir,
hann stelr geði guma:
þess fugls fjöðrum
ek fjötraðr vark
í garði Gunnlaðar.
14. Ölr ek varð,
varð ofrölvi
at ins fróða Fjalars;
því er öldr bazt,
at aptr of heimtir
hverr sitt geð gumi.
15. Þagalt ok hugalt
skyli þjóðans barn
ok vígdjarft vera;
glaðr ok reifr
skyli gumna hverr,
unz sinn bíðr bana.
16. Ósnjallr maðr
hyggsk munu ey lifa,
ef hann við víg varask;
en elli gefr hánum
engi frið,
þótt hánum geirar gefi.
17. Kópir afglapi,
er til kynnis kemr,
þylsk hann um eða þrumir;
allt er senn,
ef hann sylg um getr,
uppi er þá geð guma.
18. Sá einn veit,
er víða ratar
ok hefir fjöld um farit,
hverju geði stýrir
gumna hverr
sá er vitandi er vits.
19. Haldit maðr á keri,
drekki þó at hófi mjöð,
mæli þarft eða þegi!
ókynnis þess
vár þik engi maðr,
at þú gangir snemma at sofa.
20. Gráðugr halr,
nema geðs viti,
etr sèr aldrtrega;
opt fær hlœgis,
er með horskum kemr,
manni heimskum magi.
21. Hjarðir þat vitu,
nær þær heim skulu,
ok ganga þá af grasi;
en ósviðr maðr
kann ævagi
síns um *mál* maga.
22. Vesall maðr
ok illa skapi
hlær at hvívetna;
hitki hann veit,
er hann vita þyrpti:
at hann er*a* vamma vanr.
23. Ósviðr maðr
vakir um allar nætr
ok hyggr at hvívetna;
þá er móðr,
er at morni kemr,
allt er víl sem var.
24. Ósnotr maðr
hyggr sèr alla vera
viðhlæjendr vini;
hitki hann fiðr,
þótt þeir um hann fár lesi,
ef hann með snotrum sitr.

25. Ósnotr maðr
hyggr sèr alla vera
viðhlæjendr vini;
þá þat finnr,
er at þingi kemr,
at hann á formælendr fá.

26. Ósnotr maðr
þykkisk allt vita,
ef hann á sèr í *vrá* veru;
hitki hann veit,
hvat hann skal við kveða,
ef hans freista fírar.

27. Ósnotr *maðr*
er með aldir kemr,
þat er bazt at hann þegi;
† engi þat veit,
at hann ekki kann,
nema hann mæli til mart;
veita maðr
hinn er vætki veit,
þótt hann mæli til mart.

28. Fróðr sá þykkisk
er fregna kann
ok segja it sama;
eyvitu leyna
megu ýta synir
því er gengr um guma.

29. Œrna mælir
sá er æva þegir
staðlausu stafi;
hraðmælt tunga,
nema haldendr eigi,
opt sèr ógott um gelr.

30. Át augabragði
skala maðr annan hafa,
þótt til kynnis komi;
margr þá fróðr þykkisk,
ef hann freginn erat,
ok nái hann þurrfjallr þruma.

31. Fróðr þykkisk
sá er flótta tekr
gestr at gest hæðinn;
veita görla
sá er um verði glissir,
þótt hann með grǫmum glami.

32. Gumnar margir
erusk gagnhollir,
en at viði *v*rekask;
aldar róg
þat mun æ vera,
œrir gestr við gest.

33. Árliga verðar
skyli maðr opt fá,
nè *án* til kynnis komi!
sitr ok snópir,
lætr sem sólginn sè
ok kann fregna at fá.

34. Afhvarf mikit
er til ills vinar,
þótt á brautu búi;
en til góðs vinar
liggja gagnvegir,
þótt han sè firr farinn.

35. Ganga *skal*,
skala gestr vera
ey í einum stað:
ljúfr verðr leiðr,
ef lengi sitr
annars fletjum á.

36. Bú er betra,
þótt *búkot* sè,
halr er heima hverr;
þótt tvær geitr eigi
ok taugreptan sal,
þat er þó betra en bœn.

37. Bú er betra,
þótt *búkot* sè,
halr er heima hverr;
blóðugt er hjarta
þeim er biðja skal

sèr í mál hvert matar.
38. Vápnum sínum
skala maðr velli á
feti ganga framarr;
þvíat óvíst er at vita,
nær verðr á vegum úti
geirs um þörf guma.
39. Fannka*t* ek mildan mann
eða svá matar góðan,
at væri*a* þiggja þegit,
eða síns fjár
svági *gjöflan*,
at leið sè laun, ef þægi.
40. Fjár síns,
er fengit hefir,
skylit maðr þörf þola:
opt sparir leiðum
þaz hefir ljúfum hugat:
mart gengr verr en varir.
41. Vápnum ok váðum
skulu vinir gleðjask,
þat er á sjálfum sýnst;
viðrgefendr ok endrgefendr
erusk lengst vinir,
ef þat bíðr at verða vel.
42. Vin sínum
skal maðr vinr vera
ok gjalda gjöf við gjöf;
hlátr við hlátri
skyli höldar taka,
en lausung við lygi.
43. Vin sínum
skal maðr vinr vera,
þeim ok þess vin;
en óvinar síns
skyli engi maðr
vinar vinr vera.
44. Veiztu, ef þú vin átt
þann*s* þú vel trúir,
ok vill þú af hánum gott geta:
geði skaltu við þann blanda
ok gjöfum skipta,
fara at finna opt.
45. Ef þú átt annan
þanns þú illa trúir,
villtu af hánum þó gott geta:
fagrt skaltu við þann mæla,
en flátt hyggja
ok gjalda lausung við lygi.
46. Þat er enn
of þann*s* þú illa trúir,
ok þèr er grunr at hans geði:
hlæja skaltu við þeim
ok um hug mæla:
glík skulu gjöld gjöfum.
47. Ungr var ek forðum,
fór ek einn saman,
þá varð ek villr vega;
auðigr þóttumk,
er ek annan fann:
maðr er manns gaman.
48. Mildir frœknir
menn bazt lifa,
sjaldan sút ala;
en ósnjallr maðr
uggir hotvetna:
sýtir æ glöggr við gjöfum.
49. Váðir mínar
gaf ek velli at
tveim trèmönnum;
rekkar þat þóttusk,
er þeir ript höfðu:
neiss er nökkviðr halr.
50. Hrörnar þöll
sú er stendr þorpi á,
hlýra*t* henni börkr nè barr;
svá er maðr
sá er manngi ann,
hvat skal hann lengi lifa?
51. Eldi heitari

brennr með illum vinum
friðr fimm daga;
en þá sloknar,
er inn sètti kemr,
ok versnar allr vinskapr.

52. Mikit eitt
skala manni gefa,
opt kaupir sèr í litlu lof:
með hálfum hleif
ok með höllu keri
fèkk ek mèr fèlaga.

53. Lítilla sanda,
lítilla sæva,
lítil eru geð guma;
því allir menn
urðut jafnspakir:
hálf er öld hvár*s*.

54. Meðalsnotr
skyli manna hverr,
æva til snotr sè;
þeim er fyrða
fegrst at lifa,
er vel mart vitu.

55. Meðalsnotr
skyli manna hverr,
æva til snotr sè;
þvíat snotrs manns hjarta
verðr sjaldan glatt,
ef sá er alsnotr, er á.

56. Meðalsnotr
skyli manna hverr,
æva til snotr sè;
örlög sín
viti engi * fyrir!
þeim er sorgalausastr sefi.

57. Brandr af brandi brenn,
unz brunninn er,
funi kveykisk af funa:
maðr af manni
verðr at máli kuðr,
en til dœlskr af dul.

58. Ár skal rís*a*
sá er annars vill
fê eða fjör hafa:
sjaldan liggjandi úlfr
lær um getr,
nè sofandi maðr sigr.

59. 'Ár skal rísa
sá er á yrkendr fá
ok ganga síns verka á vit;
mart um dvelr
þann er um morgin sefr:
hálfr er auðr und hvötum.

60. þurra skíða
ok þakinna næfra,
þess kann maðr mjö*t*,
þess viðar,
er vinnask megi
mál ok misseri.

61. þveginn ok mettr
ríði maðr þingi at,
þótt hann sèt væddr til vel!
skúa ok bróka
skammisk engi maðr,
nè hests in heldr,
† þótt hann hafit góðan!

62. Snapir ok gnapir,
er til sævar kemr,
örn á aldinn mar;
svá er maðr,
er með mörgum kemr
ok á formælendr fá.

63. Fregna ok segja
skal fróðra hverr,
sá er vill heitinn horskr;
einn vita
nè annarr skal,
þjóð veit, ef þrír 'ru.

64. Ríki sitt
skyli ráðsnotra hverr

í hófi hafa:
þá hann þat finnr,
er með frœknum kemr,
at engi er einna hvatastr.

65. (*Gætinn ok geyminn*
*skyli gumna hverr*
*ok varr at vintrausti*;)
orða þeirra,
er maðr öðrum segir,
opt hann gjöld um getr.

66. Mikilsti snemma
kom ek í marga staði,
en til síð í suma;
öl var drukkit,
sumt var ólagat:
sjaldan hittir leiðr í líð.

67. Hèr ok hvar
mundi mèr heim of boðit,
ef þyrptak at málungi mat,
eða tvau lær hengi
at ins tryggva vinar,
þars ek hafða*k* eitt etit.

68. Eldr er beztr
með ýta sonum
ok sólar sýn,
heilyndi sitt
ef maðr hafa náir,
án við löst at lifa.

69. Erat maðr alls vesall,
þótt hann sè illa heill:
sumr er af sonum sæll,
sumr af frændum,
sumr af fè œrnu,
sumr af verkum vel.

70. Betra er lifðum
*en* sè *ó*lifðum,
ey getr kvikr kú;
eld sá ek upp brenna
auðgum manni fyrir,
en úti var dauðr fyr durum.

71. Haltr ríðr hrossi,
hjörð rekr h*a*ndarvanr,
daufr vegr ok dugir;
blindr er betri
en brendr sè,
nýtr manngi nás.

72. Sonr er betri,
þótt sè síð of alinn
eptir genginn guma;
sjaldan bautarsteinar
standa brautu nær,
nema reisi niðr at nið.

73. Tveir 'ru eins herjar,
tunga er höfuðs bani,
er mèr í hèðin hvern handar væni.

74. Nótt verðr feginn
sá er nesti trúir,
skammar 'ru skips rár,
hverf er haustgríma;
fjöld um viðrir
á fimm dögum,
en meira á mánaði.

75. Veita hinn
er vætki veit:
margr verðr a*f* au*r*um api;
maðr er auðigr,
annarr óauðigr,
skylit þann vítka vár.

76. Deyr fè,
deyja frændr,
deyr sjálfr it sama;
en orðstírr
deyr aldrigi
hveim er sèr góðan getr.

77. Deyr fè,
deyja frændr,
deyr sjálfr it sama;
ek veit einn
at aldri deyr:

dómr um dauðan hvern.
78. Fullar grindr
sá ek fyr Fitjungs sonum,
nú bera þeir vánar völ;
svá er auðr
sem augabragð,
hann er valtastr vina.
79. Ósnotr maðr
ef eignazk getr
fê eða fljóðs munuð,
metnaðr hánum þróask,
en mannvit aldrigi,
fram gengr hann drjúgt í dul.
80. Þat er þá reynt, er þú at rúnum spyrr
inum reginkunnum,
þeim er gõrðu ginnregin
ok fáði fimbulþulr,
þá hefir hann bazt, ef hann þegir.
81. †At kveldi skal dag leyfa,
konu er brend er,
mæki er reyndr er,
mey er gefin er,
ís er yfir kemr,
öl er drukkit er.
82. †Í vindi skal við höggva,
veðri á sjó róa,
myrkri við man spjalla,
mörg eru dags augu;
á skip skal skriðar orka,
en á skjöld til hlífar,
mæki höggs,
en mey til kossa.
83. †Við eld skal öl drekka,
en á ísi skríða,
magran mar kaupa,
en mæki saurgan,
heima hest feita,
en hund á búi.
84. Meyjar orðum
skyli manngi trúa,
nè því er kveðr kona;
þvíat á hverfanda hveli
váru þeim hjörtu sköpuð,
brigð í brjóst um lagið.
85. †Brestanda boga,
brennanda loga,
gínanda úlfi,
galandi kráku,
rýtanda svíni,
rótlausum viði,
vaxanda vági,
vellanda katli,
86. †Fljúganda fleini,
fallandi báru,
ísi einnættum,
ormi hringlegnum,
brúðar beðmálum
eða brotnu sverði,
bjarnar leiki
eð*a* barni konungs,
87. †Sjúkum kálfi,
sjálfráða þræli,
völu vilmæli,
val nýfeldum,
(*heiðríkum himni*,
*hlæjanda herra*,
*hunda helti*
*ok harmi skækju*,)
88. * †Bróðurbana sínum,
þótt á brautu mœti,
húsi hálfbrunnu,
hesti alskjótum
— þá er jór ónýtr,
ef einn fótr brotnar —,
verðit maðr svá tryggr,
at þessu trúi öllu!
89. Akri ársánum
trúi engi maðr,

nè til snemma syni!
veðr ræðr akri,
en vit syni,
hætt er þeirra hvárt.*
90. †Svá er friðr kvenna
þeirra er flátt hyggja,
sem aki jó óbryddum
á ísi hálum,
teitum tvevetrum,
ok sè tamr illa,
eða í byr óðum
beiti stjórnlausu,
eða skyli haltr henda
hreín í þáfjalli.
91. Bert ek nú mæli,
þvíat ek bæði veit:
brigðr er karla hugr konum;
þá vèr fegrst mælum,
er vèr flást hyggjum,
þat tælir horska hugi.
92. Fagrt skal mæla
ok fè bjóða
sá er vill fljóðs ást fá,
líki leyfa
ins ljósa mans;
sá fær er frjár.
93. Ástar firna
skyli engi maðr
annan aldrigi:
opt fá á horskan,
er á heimskan ne fá,
lostfagrir litir.
94. Eyvitar firna
er maðr annan skal
þess er um margan gengr guma:
heimska ór horsk*um*
görir hölda sonu
sá inn mátki munr.
95. Hugr einn þat veit
er býr hjarta nær,
einn er hann sèr um sefa;
öng er sótt verri
hveim snotrum manni
en sèr öngu at una.
96. þat ek þá reynda,
er ek í reyri sat
ok vættak míns munar:
hold ok hjarta
var mèr in horska mær,
þeygi ek hana at heldr hefik.
97. Billings mey
ek fann beðjum á
sólhvíta sofa:
jarls yndi
þótti mèr ekki vera,
nema við þat lík at lifa.
98. „Auk nær aptni
skaltu, Óðinn! koma,
ef þú vilt þèr mæla man:
allt eru óskõp,
nema einir viti
slíkan lõst saman.“
99. Aptr ek hvarf,
ok unna þóttumk,
vísum vilja frá;
hitt ek hugða,
at ek hafa mynda
geð hennar allt ok gaman.
100. Svá kom ek næst,
at in nýta var
vígdrótt õll um vakin:
með brennandum ljósum
ok bornum viði
*sá* var mèr vílstigr of vitaðr.
101. Ok nær morni,
er ek var enn um kominn,
þá var saldrótt um sofin:
grey eitt ek þá fann
innar góðu konu

bundit beðjum á.
102. Mörg er góð mær,
ef görva kannar,
hugbrigð við hali;
þá ek þat reynda,
er it ráðspaka
teygðak á flærðir fljóð:
háðungar hverrar
leitaði mèr it horska man,
ok hafðak þess vætki vífs.
103. Heima glaðr gumi
ok við gesti reifr
sviðr skal um sik vera,
minnigr ok málugr,
ef hann vill margfróðr vera,
opt skal góðs geta;
fimbulfambi heitir
sá er fátt kann segja,
þat er ósnotrs aðal.
104. Inn aldna jötun ek sótta,
nú em ek aptr um kominn,
fátt gat ek þegjandi þar:
mörgum orðum
mæltak í minn frama
í Suttungs sölum.
105. Gunnlöð mèr um gaf
gullnum stóli á
drykk ins dýra mjaðar;
ill iðgjöld
lèt ek hana eptir hafa
síns ins heila hugar,
síns ins svára sefa.
106. Rata munn
lètumk rúms um fá
ok um grjót gnaga;
yfir ok undir
stóðumk jötna vegir,
svá hættak höfði til.
107. Velkeypts litar
hefik vel notit:
fás er fróðum vant;
þvíat Óðrerir
er nú upp kominn
á alda vè jarðar.
108. Ifi er mèr á,
at ek værak enn kominn
jötna görðum ór,
ef ek Gunnlaðar ne nytak,
innar góðu konu,
þeirrar ek lögðumk arm yfir.
109. Ins hindra dags
gengu hrímþursar
†Háva ráðs at fregna
Háva höllu í:
at Bölverki þeir spurðu,
ef hann væri með böndum kominn,
eða hefði hánum Suttungr of sóit.
110. †Baugeið Óðinn
hygg ek at unnit hafi;
hvat skal hans trygðum trúa?
Suttung svikinn
hann lèt sumbli frá
ok grœtta Gunnlöðu.

---

111. Mál er at þylja
þular stóli á
Urðar brunni at;
sá ek ok þagðak,
sá ek ok hugðak,
hlýddak á manna mál;
of rúnar heyrðak dœma,
nè um ráðum þögðu
Háva höllu at,
Háva höllu í,
heyrðak segja svá:
112. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
*en* þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,

þèr munu góð, ef þú getr:
nótt þú rísat,
nema á njósn sèr,
eða þú leitir þèr innan út staðar!
113. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
*en* þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
fjölkunnigri konu
skalattu í faðmi sofa,
svá at hon lyki þik liðum.
114. Hon svá görir,
at þú gáir*at*
þings nè þjóðans máls,
mat þú villat
nè mannskis gaman,
ferr þú sorgafullr at sofa.
115. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
annars konu
teygðu þèr aldrigi
eyrarúnu at!
116. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
á fjalli eða firði
ef þik fara tíðir,
fástu at virði vel!
117. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
illan mann
láttu aldrigi
óhöpp at þèr vita!
þvíat af illum manni
fær þú aldrigi
gjöld ins góða hugar.
118. Ofarla bíta
ek sá einum hal
orð illrar konu:
fláráð tunga
varð hánum at fjörlagi,
ok þeygi um sanna sök.
119. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
veiztu, ef þú vin átt
þanns þú vel trúir,
farðu at finna opt!
þvíat hrísi vex
ok hávu grasi
vegr er vætki treðr.
120. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
góðan mann
teygðu þèr at gamanrúnum
ok nem líknargaldr, meðan þú lifir!
121. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
vin þínum
ver þú aldrigi
fyrri at flaumslitum!
sorg etr hjarta,
ef þú segja ne náir
einhverjum allan hug.
122. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:

orðum skipta
þú skalt aldrigi
við ósvinna apa.
123. Þvíat af illum manni
mundu aldrigi
góðs laun um geta;
en góðr maðr
mun þik görva mega
líknfastan at lofi.
124. Sifjum er þá blandat,
hverr er segja ræðr
einum allan hug;
allt er betra
en sè brigðum at vera,
era sá vinr öðrum, er vilt eitt segir.
125. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
þrimr orðum senna
skalattu * við þèr verra mann;
opt inn betri bilar,
þá er inn verri vegr.
126. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
skósmiðr þú verir
nè skeptismiðr,
nema þú sjálfum þèr sèr!
skór er skapaðr illa,
eða skapt sè rangt,
þá er þèr böls beðit.
127. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
hvars þú böl kant,
kveð þú þat bölvi at
ok gefat þínum fjandum frið!
128. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
illu feginn
verðu aldrigi,
en lát þèr at góðu getit!
129. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
upp líta skalattu
í orrostu
— gjalti glíkir
verða gumna synir —,
síðr þi*k* um heilli halir.
130. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
ef þú vilt þèr góða konu
kveðja at gamanrúnum
ok fá fögnuð af,
fögru skaltu heita
ok láta fast vera:
leiðisk manngi gott, ef getr.
131. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
varan bið ek þik vera
ok eigi ofvaran,
ver þú við öl varastr
ok við annars konu
ok við þat it þriðja, at *þik* þjófar ne leiki!
132. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,

þèr munu góð, ef þú getr:
at háði nè hlátri
hafðu aldrigi
gest nè ganganda!
opt vitu ógörla
þeir er sitja inni fyrir,
hvers þeir 'ru kyns er koma.

133. (*Löstu ok kosti*
*bera ljóða synir*
*blandna brjóstum í*;)
erat maðr svá góðr,
at galli ne fylgi,
nè svá illr, at einugi dugi.

134. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
at hárum þul
hlæðu aldrigi!
opt er gott þat er gamlir kveða;
opt ór skörpum belg
skilin orð koma,
þeim er hangir með hám
ok skollir með skrám
ok váfir með vílmögum.

135. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
gest þú nè geyja
nè á grind hrökir,
get þú váluðum vel!

136. Ramt er þat trè,
er ríða skal
öllum at upploki:
baug þú gef!
eða þat biðja mun þèr
læs hvers á liðu.

137. Ráðumk þèr, Loddfáfnir!
en þú ráð nemir!
njóta mundu, ef þú nemr,
þèr munu góð, ef þú getr:
hvars þú öl drekkr,
kjós þú þèr jarðar megin!
— þvíat jörð tekr við öldri,
en eldr við sóttum,
eik við abbindi,
ax við fjölkyngi,
höll við hýrógi,
heiptum skal mána kveðja,
beiti við bitsóttum,
en við bölvi rúnar, —
fold skal við flóði taka.

---

138. Veit ek, at ek hèkk
vindga meiði á
nætr allar níu,
geiri undaðr
ok gefinn Óðni,
sjálfr sjálfum mèr,
á þeim meiði,
er manngi veit,
hvers hann af rótum renn.

139. †Við hleifi mik seldu
nè við hornigi;
nýsta*k* niðr,
nam ek upp rúnar,
œpandi nam,
fèll ek aptr þaðan.

140. Fimbulljóð níu
nam ek af inum frægja syni
Bölþor*ns* Bestlu föður;
ok ek drykk of gat
ins dýra mjaðar
ausinn Óðreri.

141. þá nam ek frævask
ok fróðr vera
ok vaxa ok vel hafask:

orð mèr af orði
orðs leitaði,
verk mèr af verki
†verks leitaði.
142. Rúnar munt þú finna
ok ráðna stafi,
mjök stóra stafi,
mjök stinna stafi,
er fáði fimbulþulr,
ok görðu ginnregin,
ok reist Hroptr rögna,
Óðinn með ásum,
en fyr álfum Dáinn,
Dvalinn ok dvergum fyrir,
A*l*sviðr jötnum fyrir,
ek reist sjálfr sumar.
143. Veiztu, hve rísta skal?
veiztu, hve ráða skal?
veiztu, hve fá skal?
veiztu, hve freista skal?
veiztu, hve biðja skal?
veiztu, hve blóta skal?
veiztu, hve senda skal?
veiztu, hve sóa skal?
144. Betra er óbeðit
en sè ofblótit,
ey sèr til gildis gjöf;
betra er ósent
en sè ofsóit.
* * *
†Svá þundr um reist
fyr þjóða rök;
þar hann upp um reis,
er hann aptr of kom.
145. Ljóð ek þau kann,
er kannat þjóðans kona
ok mannskis mögr:
hjálp heitir eitt,
en þat þèr hjálpa mun
við sökum ok sorgum
†ok sútum görvöllum.
146. Þat kann ek annat,
er þurfu ýta synir
þeir er vilja læknar lifa.
* * *
147. Þat kann ek *it* þriðja,
ef mèr verðr þörf mikil
hapts við mína heiptmögu:
eggjar ek deyfi
minna andskota,
bítat þeim vápn nè vèlir.
148. Þat kann ek it fjórða,
ef mèr fyrðar bera
bönd at boglimum:
svá ek gel,
at ek ganga má,
sprettr mèr af fótum fjöturr,
en af höndum hapt.
149. Þat kann ek it fimta,
ef ek sè af fári skotinn
flein í fólki vaða:
flýgra hann svá stint,
at ek stöðvigak,
ef ek hann sjónum of sèk.
150. Þat kann ek it sètta,
ef mik særir þegn
á rótum rás viðar:
ok þann hal
er mik heipta kveðr,
þann eta mein heldr en mik.
151. Þat kann ek it sjaunda,
ef ek sè hávan
loga sal um sessmögum:
brennrat svá breitt,
at ek hánum bjargigak,
þann kann ek galdr at gala.
152. Þat kann ek it átta,
er öllum er
nytsamlikt at nema:
hvars hatr vex

með hildings sonum,
þat má ek bœta brátt.
153. Þat kann ek it níunda,
ef mik nauðr um stendr
at bjarga fari mínu á floti:
vind ek kyrri
vági á,
ok svæfik allan sæ.
154. Þat kann ek it tíunda,
ef ek sè túnriður
leika lopti á:
ek svá vinnk,
at þær villar fara
sinna heim hama,
sinna heim huga.
155. Þat kann ek it ellipta,
ef ek skal til orrostu
leiða langvini:
undir randir ek gel,
en þeir með ríki fara
heilir hildar til,
heilir hildi frá,
koma þeir heilir hvaðan.
156. Þat kann ek it tólpta,
ef ek sè á trè uppi
váfa virgilná:
svá ek ríst
ok í rúnum fák,
at sá gengr gumi
ok mælir við mik.
157. Þat kann ek it þrettánda,
ef ek skal þegn ungan
verpa vatni á:
munat hann falla,
þótt hann í fólk komi,
hnígra sá halr fyr hjörum.
158. Þat kann ek it fjugrtánda,
ef ek skal fyrða liði
telja tíva fyr:
ása ok álfa
ek kann allra skil,
fár kann ósnotr svá.
159. Þat kann ek it fimtánda,
er gól Þjóðreyrir
dvergr fyr Dellings durum:
afl gól hann ásum,
en álfum frama,
hyggju Hroptatý.
160. Þat kann ek it sextánda,
ef ek vil ins svinna mans
hafa geð allt ok gaman:
hugi ek hverfi
hvítarmri konu,
ok sný ek hennar öllum sefa.
161. Þat kann ek it sjautjánda,
at mik mun seint firrask
it manunga man;
ljóða þessa
mun þú, Loddfáfnir!
lengi vanr vera;
þó sè þèr góð, ef þú getr,
nýt, ef þú nemr,
þörf, ef þú þiggr!
162. Þat kann ek it átjánda,
er ek æva kenník
mey nè manns konu,
— allt er betra,
er einn um kann,
þat fylgir ljóða lokum, —
nema þeirri einni,
er mik armi verr,
eða mín systir sè.
163. Nú eru Háva mál kveðin
Háva höllu í,
allþörf ýta sonum,
óþörf jötna sonum.
Heill sá er kvað!
heill sá er kann!
njóti sá er nam!
heilir þeirs hlýddu!

# RÍGSÞULA

eða

## RÍGSMÁL.

---

Svá segja menn í fornum sögum, at einnhverr af ásum, sá er Heimdallr hèt, fór ferðar sinnar ok fram með sjóvarströndu nökkurri, kom at einum húsabœ ok nefndisk Rígr. Eptir þeirri sögu er kvæði þetta:

1. At kváðu ganga
grœnar brautir
öflgan ok aldinn
ás kunnigan,
ramman ok röskvan
Ríg stíganda,
†gekk hann meirr at þat
miðrar brautar.

2. Kom hann at húsi,
hurð var á gætti,
inn nam at ganga,
eldr var á gólfi:
hjón sátu þar
hár a*t* arni,
Ái ok E*d*da
aldinfalda.

3. Rígr kunni þeim
ráð at segja,
* * *
meirr settisk hann
miðra fletja,
en á hlið hvára
hjón salkynna.

4. Þá tók Edda
ökkvinn leif
þungan ok þykkan,
þrunginn sáðum;
bar hon meirr at þat
miðra skutla,
soð var í bolla,
setti á bjóð,
†var kálfr soðinn
krása beztr.

5. Rígr kunni þeim
ráð at segja,
reis hann upp þaðan,
rèzk at sofna;
meirr lagðisk hann
miðrar rekkju,
en á hlið hvára
hjón salkynna.

6. Þar var hann at þat
þrjár nætr saman,
* * *
gekk hann meirr at þat
miðrar brautar,
liðu meirr at þat
mánuðr níu.

7. Jóð ól Edda,
jósu vatni
hö*svan ok* svartan,
hètu þræl.*
* * *

8. Var þar á höndum
hrokkit skinn,
kroppnir knúar,
*kartnir negl,*
fingr digrir,
fúlligt andlit,
lotr hryggr,
langir hælar.

9. *Hann nam at vaxa
ok vel dafna,
nam hann meirr at þat
magns um kosta,
bast at binda,
byrðar görva,
bar hann heim at þat
hrís gerstan dag.

10. Þar kom at garði
gengilbeina,
* * *
örr var á iljum,
armr sólbrunninn,
niðrbjúgt er nef,
nefndisk Þír.

11. Miðra fletja
meirr settisk hon,
sat hjá henni
sonr húss;
rœddu ok rýndu,
rekkju görðu
þræll ok Þír
þrungin dœgr.

12. Börn ólu þau,
bjuggu ok undu,
hygg ek at hèti
Hreimr ok Fjósnir,
Klúrr ok Kleggi,
Kefsir, Fúlnir,
Drumbr, Digraldi,
Dröttr ok Hösvir,

13. Lútr ok Leggjaldi,
lögðu garða,
akra töddu,
unnu at svínum,
geita gættu,
grófu torf;
*þaðan eru komnar
þræla ættir.

14. Dœtr váru þær
Drumba ok Kumba,
Ökkvinkálfa
ok Arrinnefja,
Ysja ok Ambátt,
Eikintsjasna,
Tötrughypja
ok Trönubeina.*

---

15. Gekk Rígr at þat
rèttar brautir,
kom hann at höllu,
hurð var á skíði;
inn nam at ganga,
eldr var á gólfi,
*Afi ok Amma
áttu hús.

16. Hjón sátu þar,
hèldu á sýslu,
maðr telgði þar
meið til rifjar:
var skegg skapat,
skör var fyr enni,
skyrtu þröngva,
skokkr var á gólfi.

17. Sat þar kona,
sveigði rokk,
breiddi faðm,
bjó til váðar:
sveigr var á höfði,
smokkr var á bringu,
dúkr var á hálsi,
dvergar á öxlum.*

18. Rígr kunni þeim
ráð at segja,
* * *
*meirr settisk hann*
*miðra fletja,*
*en á hlið hvára*
*hjón salkynna.*
19. *Þá tók Amma*
* * *
20. *Rígr kunni þeim*
*ráð at segja,*
reis frá borði,
rèzk at sofna;
meirr lagðisk hann
miðrar rekkju,
en á hlið hvára
hjón salkynna.
21. Þar var hann at þat
þrjár nætr saman,
* * *
*gekk hann meirr at þat*
*miðrar brautar,*
liðu meirr at þat
mánuðr níu.
22. Jóð ól Amma,
jósu vatni,
kölluðu Karl,
kona sveip ripti
* * *
rauðan ok rjóðan,
riðuðu augu.
23. Hann nam at vaxa
ok vel dafna,
öxn nam at temja,
arðr at görva,
hús at timbra
ok hlöður smíða,
karta at görva
ok keyra plóg.
24. Heim óku þá
hanginluklu,
geitakyrtlu,
giptu Karli,
Snör heitir sú,
settisk und ripti,
†bjuggu hjón,
bauga deildu,
breiddu blæjur
ok bú görðu.
25. Börn ólu þau,
bjuggu ok undu,
hèt Halr ok Drengr,
Höldr, Þegn ok Smiðr,
Breiðr, Bóndi,
Bundinskeggi,
Búi ok Boddi,
Brattskeggr ok Seggr.
26. Enn hètu svá
öðrum nöfnum:
Snót, Brúðr, Svanni,
Svarri, Sprakki,
Fljóð, Sprund ok Víf,
Feima, Ristill;
þaðan eru komnar
karla ættir.

---

27. Gekk Rígr þaðan
rèttar brautir,
kom hann at sal,
suðr horfðu dyrr;
var hurð hnigin,
hringr var í gætti,
gekk hann inn at þat,
gólf var strát.
28. Sátu hjón,
sásk í augu,
Faðir ok Móðir,
fingrum at leika;
sat húsgumi
ok sneri streng,

álm of bendi,
örvar skepti.
29. En húskona
hugði at örmum,
strauk of ripti,
sterti ermar,
keisti fald,
kinga var á bringu,
síðar slœður,
serk bláfán;
brún bjartari,
brjóst ljósara,
háls hvítari
hreinni mjöllu.
30. Rígr kunni þeim
ráð at segja,
* * *
meirr settisk hann
miðra fletja,
en á hlið hvára
hjón salkynna.
31. Þá tók Móðir
merktan dúk
hvítan af hörvi,
huldi bjóð;
hon tók at þat
hleifa þunna,
hvíta af hveiti,
ok huldi dúk.
32. Fram setti hon skutla
fulla, silfri varða,*
fán* fleski
ok fugla steikta;
vín var í könnu,
varðir kalkar,
drukku ok dœmdu,
dagr var á sinnum.
33. Rígr kunni þeim
ráð at segja,
reis *hann* at þat,
rekkju gerði;
*meirr lagðisk hann*
*miðrar rekkju,*
*en á hlið hvára*
*hjón salkynna.*
34. Þar var hann at þat
þrjár nætr saman,
* * *
gekk hann meirr at þat
miðrar brautar,
liðu meirr at þat
mánuðr níu.
35. Svein ól Móðir,
silki vafði,
jósu vatni,
Jarl lètu heita;
bleikt var hár,
bjartir vangar,
ötul váru augu
sem yrmlingi.
36. Upp óx þar
Jarl á fletjum,
lind nam at skelfa,
leggja strengi,
álm at beygja,
örvar skepta,
flein at fleygja,
frökkur dýja,
hestum ríða,
hundum verpa,
sverðum bregða,
sund at fremja.
37. Kom þar ór runni
Rígr gangandi,
Rígr gangandi,
rúnar kendi;
†sitt gaf heiti,
son kvazk eiga,
þann bað hann eignask
óðalvöllu,

óðalvöllu,
aldnar bygðir.
* * *

38. Reið hann meirr þaðan
myrkan við,
hèlug fjöll,
unz at höllu kom.

39. Skapt nam at dýja,
skelfði lind,
hesti hleypti
ok hjörvi brá;
víg nam at vekja,
völl nam at rjóða,
val nam at fella,
vá til landa.

40. Rèð hann einn at þat
átján búum,
auð nam skipta,
öllum veita:
meiðmar ok mösma,
mara svangrifja,
hringum hreytti,
hjó sundr baug.

41. Ók*u* ærir
úrgar brautir,
kómu at höllu,
þar er Hersir bjó;
m*ey á*tti hann
mjó*va í* garði,
hvít*a* ok horsk*a*,
hètu Ern*u*.

42. Báðu hennar
ok heim óku,
giptu Jarli,
gekk hon und líni;
saman bjuggu þau
ok sèr undu,
ættir jóku
ok aldrs nutu.

43. *Upp óxu þar
Jarli bornir,
Burr var hinn elzti,
en Barn annat,
Jóð ok Aðal,
Arfi, Mögr,*
*Kundr hèt einn,
Konr var hinn yngsti.*

44. *Niðr ok Niðjungr,
námu leika,
Sonr ok Sveinn,
sund ok tafl,*
hesta tömdu,
hlífar bendu,
skeyti skófu,
skelfðu aska.

45. En Konr ungr
kunni rúnar,
æfinrúnar
ok aldrrúnar;
meirr kunni hann
mönnum bjarga,
eggjar deyfa,
œgi lægja.

46. Klök nam fugla,
kyrra elda,
sefa ok svefja,
sorgir lægja;
* * *
afl ok eljun
átta manna.

47. Hann við Ríg Jarl
rúnar deildi,
brögðum beitti
ok betr kunni;
þá öðlaðisk
ok þá eiga gat
Rígr at heita,
rúnar kunna.

48. Reið Konr ungr
kjörr ok skóga,
kólfi fleygði,
kyrði fugla.
Þá kvað þat kráka,
sat *á* kvisti ein:
„Hvat skaltu, Konr ungr!
kyrra fugla?
49. Heldr mættið èr
hestum ríða,
*hjörum bregða*
ok her fella.
50. Á Danr ok Danpr
dýrar hallir,
œðra óðal,
en *è*r hafið;
þeir kunnu vel
kjól at ríða,
egg at kenna,
undir rjúfa.“

* * *

# HYNDLULJÓÐ

með

## VÖLUSPÁ HINNI SKÖMMU.

---

1. „Vaki, mær meyja,
vaki, mín vina,
Hyndla, systir,
er í helli býr!
nú er rökkr rökkra,
ríða vit skulum
til Valhallar
ok til vès heilags.

2. Biðjum Herj*a*föðr
í hugum sitja!
hann geldr ok gefr
gull verðu*ngu*;
gaf hann Hermóði
hjálm ok brynju,
en Sigmundi
sverð at þiggja.

3. Gefr hann sigr *sum*um,
en sumum aura,
mælsku mörgum
ok mannvit fírum;
byri gefr hann brögnum,
en brag skáldum,
gefr hann mannsemi
mörgum rekki.

4. Þór mun hon blóta,
þess mun hon biðja,
at hann æ við þik
einart láti,
þó er hánum ótítt
við jötuns brúðir.

5. Nú taktu úlf þinn
ein*n* af stalli!
lát hann renna
með runa mínum!“
„Seinn er göltr þinn
goðveg troða,
vil*kat* ek mar minn
mætan hlœða.

6. Flá ertu, Freyja!
er þú freistar mín,
vísar þú augum
á oss þannig,
er þú hefir ver þinn
í valsinni,
Óttar unga,
Innsteins bur.“

7. „Dulin ertu, Hyndla!
draums ætlik þèr,
er þú kveðr ver minn
í valsinni,
þar er göltr glóar,
Gullinbursti,
Hildisvíni,
er mèr hagir görðu
dvergar tveir,
Dáinn ok Nabbi.

8. Sennum vit ór söðlum!
sitja vit skulum
ok um jöfra
ættir dœma,
gumna þeirra
er frá góðum kvámu.
9. þeir hafa veðjat
valamálmi
Óttarr ungi
ok Angantýr;
skylt er at veita,
svá at skati inn ungi
föðurleifð hafi
eptir frændr sína.
10. Hörg hann mèr gerði
hlaðinn steinum
— nú er grjót þat
at gleri orðit —,
rauð hann í nýju
nauta blóði,
æ trúði Óttarr
á ásynjur.
11. Nú láttu forna
niðja talda
ok upp bornar
ættir manna!
12. Hvat er Skjöldunga,
hvat er Skilfinga,
*hvat er Öðlinga,*
hvat er Ylfinga,
hvat er höldborit,
hvat er hersborit,
mest manna val
und miðgarði?"
13. „þú ert, Óttarr!
borinn Innsteini,
en Innsteinn var
Álfi inum gamla,
Álfr var Úlfi,
Úlfr Sæfara,
en Sæfari
Svan inum rauða.
14. Móður átti faðir þinn
menjum göfga,
hygg ek, at hon hèti
Hlèdís gyðja;
Fróði var faðir þeirrar,
en Frí*und* móðir;
öll þótti ætt sú
með yfirmönnum.
15. Áli var áðr
öflgastr manna,
Hálfdan fyrri
hæstr Skjöldunga;
fræg váru fólkvíg
þau er fram*r* gerð*i*,
hvarfla þóttu hans verk
með himins skautum.
16. Efldisk hann við Eymund,
œztan manna,
en hann *vá* Sigtrygg
með svölum eggjum,
eiga gekk Álmveig,
œzta kvenn*a*,
ólu þau ok áttu
átján sonu.
17. † þaðan eru Skjöldungar,
þaðan eru Skilfingar,
þaðan Öðlingar,
þaðan Ynglingar,
þaðan höldborit,
þaðan hersborit,
mest manna val
und miðgarði;
allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!
18. Var Hildigunn
hennar móðir
Sváfu barn
ok Sækonungs;

allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!
varðar at viti svá,
villtu enn lengra?

19. Dagr átti þóru
drengja móður,
ólust í ætt þar
œztir kappar:
Fraðmarr ok Gyrðr
ok Frekar báðir,
Ámr ok Jösurmarr,
Álfr inn gamli.*

20. Ketill hèt vinr þeirra,
Klyps arfþegi,
var hann móðurfaðir
móður þinnar;
þar var Fróði,
fyrr enn Kári,
hinn eldri var
Álfr um getinn.

21. Nanna var næst þar
Nökkva dóttir,
var mögr hennar
mágr þíns föður;
fyrnd er sú mægð,
fram tel ek lengra,*
allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!

22. *Haki var Hveðnu
hóti beztr sona,
en Hveðnu var
Hjörvarðr faðir;
Ísólfr ok Ásólfr
Ölmóðs synir
ok Skúrhildar
Skekkils dóttur.

23. *Gunnarr bálkr,
Grímr harðskafi,
járnskjöldr þórir,
Úlfr gínandi;
skaltu til telja
skatna margra,
allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!*

24. *Hervarðr ok Hjörvarðr,*
*Hrani ok Angantýr,*
Búi ok Brami,
Barri ok Reifnir,
Tindr ok Tyrfingr
ok tveir Haddingjar;
allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!

25. *þeir í Bólm austr*
bornir váru
Arngríms synir
ok Eyfuru;
brökun berserkja
böls margskonar
um lönd ok um lög,
sem logi fœri.*

26. Allir bornir
frá Jörmunreki
Sigurðar mági,
— hlýð þú sögu minni! —
fólkumgrimms
þess er Fáfni vá;
*allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!

27. Sá var vísir
frá Völsungi,
ok Hjördís
frá Hrauðungi,
en Eylimi
frá Öðlingum;
allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!

28. Gunnarr ok Högni
Gjúka arfar,

ok it sama Guðrún
systir þeirra;
var*a* Guthormr
Gjúka ættar,
þó var hann bróðir
beggja þeirra.*

29. Haraldr hilditönn
borinn Hrœreki
slöngvanbauga,
son*r* var hann Auðar,
Auðr djúp*ú*ðga
Ívars dóttir,
en Ráðbarðr
var Randvès faðir.

30. *Kunna*k* báða
Brodd ok Hörfi,
váru þeir í hirð
Hrólfs ins gamla;
þeir váru gumnar
goðum signaðir;
allt er þat ætt þín,
Óttarr heimski!"

---

31. Váru ellifu
æsir taldir,
Baldr er hnè
við banaþúfu;
þess lèzk Vali
verðr at hefna,
síns bróður
sló hann handbana.*

32. Var Baldrs faðir
Burs arfþegi,
* * *
Freyr átti Gerði,
hon var G*y*mis dóttir,
jötna ættar,
ok Aurboðu.

33. Þó var Þjassi
þeirra frændi
skautgjarn jötunn,
hans var Skaði dóttir.
Mart segjum þèr
ok munum fleira,
vörumk at viti svá,
villtu enn *lengra*?*

34. †Eru völur allar
frá Viðólfi,
vitkar allir
frá Vilmeiði,
*seið*berendr
frá Svarthöfða,
jötnar allir
frá Ými komnir.
* * *

35. †*Heiðr ok Hrossþjófr
Hrímnis kindar.
Mart segjum þèr
ok munum fleira,
vörumk at viti svá,
villtu enn lengra?

36. Varð einn borinn
í árdaga
rammaukinn mjök
rögna kindar;
níu báru þann
nad*dg*öfgan mann
jötna meyjar
við jarðar þröm.*

37. Hann Gjálp um bar,
hann Greip um bar,
bar hann Eistla
ok Eyrgjafa,
hann bar Úlfrún
ok Angeyja,

Imdr ok Atla
ok Járnsaxa.
38. Sá var aukinn
jarðar megni,
svalköldum sæ
ok sónardreyra.
Mart segjum þèr
ok munum fleira,
*vörumk at viti svá,*
*villtu enn lengra?*
39. Ól úlf Loki
við Angrboðu,
en Sleipni gat
við Svaðilfara;
eitt þótti skars
allra feiknast,
þat var bróður frá
Byleists komit.
40. Loki af hjarta
lindi brendu,
fann hann hálfsviðinn
hugstein ko*n*u;
varð Loptr kviðugr
af konu illri,
þaðan er á foldu
flagð hvert komit.
41. Haf gengr hríðum
við himin sjálfan,
líðr lönd yfir,
en lopt bilar;
þaðan koma snjóvar
ok snarir vindar,
þá er í ráði,
at regn um þrjóti.
42. Varð einn borinn
öllum meiri,
sá var aukinn
jarðar megni;
þann kveða stilli
stór*ú*ðgastan,
Sif sifjaðan,
sjötum görvöllum.
43. Þá kemr annarr
enn mátkari,
þó þori*gak*
þann at nefna;
fáir sjá nú
fram um lengra,
en Óðinn mun
úlfi mœta.

---

44. „Ber þú minnis öl
mínum gelti!
svá hann öll muni
orð at tína
þessa*r* rœðu
á þriðja morni,
þá er þeir Angantýr
ættir rekja.“
45. „Snúðu b*rau*t hèðan!
sofa lystir mik,
fær þú fátt af mèr
fríðra kosta; *
rannt at *Ó*ði
ey þreyjandi,
skutusk þèr fleiri
und fyrirskyrtu.“ *
46. „Ek slæ eldi
of íviðju,
svá at þú *œva* kemsk
*aptr* hèðan:
hleypr þú, eðlvina!
úti á náttum,
sem með höfrum
Heiðrún fari.“

47. „Hyr sè ek brenna
en hauðr loga,
verða flestir
fjörlausn þola:
ber þú Óttari
bjór at hendi
eitri blandinn mjök
illu heilli!“

48. „Orðheill þín
skal engu ráða,
þóttu, bruðr jötuns!
bölvi heitir;
hann skal drekka
dýrar veigar,
bið ek Óttari
öll goð duga.“

# VÖLUNDARKVIÐA.

Níðuðr hèt konungr í Svíþjóð; hann átti tvá sonu ok eina dóttur, hon hèt Böðvildr. Brœðr váru þrír, synir Finna-konungs; hèt einn Slagfiðr, annarr Egill, þriði Völundr; þeir skriðu ok veiddu dýr. þeir kvámu í Úlfdali ok gerðu sèr þar hús; þar er vatn, er heitir Úlfsjár. Snemma of morgin fundu þeir á vazströndu konur þrjár, ok spunnu lín; þar váru hjá þeim álptarhamir þeirra; þat váru valkyrjur. þar váru tvær dœtr *H*löðvès konungs, Hlaðguðr svanhvít ok Hervör ál*m*vítr, in þriðja var Ölrún Kjárs dóttir af Vallandi. þeir höfðu þær heim til skála með sèr. Fèkk Egill Ölrúnar, en Slagfiðr Svanhvítrar, en Völund*r* Ál*m*ví*t*tar. þau bjuggu sjau vetr; þá flugu þær at vitja víga ok kvámu eigi aptr. þá skreið Egill at leita Ölrúnar, en Slagfiðr leitaði Svanhvítrar, en Völundr sat í Úlfdölum. Hann var hagastr maðr, svá at menn viti í fornum sögum. Níðuðr konungr lèt hann höndum taka, svá sem hèr er um kveðit.

1. Meyjar flugu sunnan
myrkvið í gögnum,
ál*m*vítr unga*r*,
örlög drýgja;
þær á sævarströnd
settusk at hvílask
drósir suðrœnar,
dýrt lín spunnu.

2. Ein nam þeirra
Egil at verja,
† fögr mær fíra,
faðmi ljósum;
önnur var svanhvít,
svanfjaðrar dró;
en in þriðja
þeirra syst*ra*
varði hvítan
háls *Völ*undar.

3. Sátu síðan
sjau vetr at þat,
en inn átta
allan þráðu,
† en inn níunda
nauðr um skildi:
meyjar fýstusk
á myrkvan við,
ál*m*vítr unga*r*,
örlög drýgja.

4. Kom þar af veiði
ve*ð*reygr skyti,
*Völundr, líðandi*
*um langan veg,*
Slagfiðr ok Egill,
sali fundu auða,
gengu út ok inn
ok um sásk.

5. Austr skrei*ð* Egill

at Ölrúnu,
en suðr Slagfiðr
at svanhvítu;
en einn Völundr
sat í Úlfdölum,
[*beið þaðan bjartrar*
*brúðar kvámu*].

6. Hann sló gull rautt
við gim fastan,
lukti hann alla
li*ð*bauga vel;
svá beið hann
sinnar ljóssar
kvánar, ef hánum
koma gerði.

7. þat spyrr Níðuðr
Njara dróttinn,
at einn Völundr
sat í Úlfdölum.

8. Nóttum *f*óru seggir,
negldar váru brynjur,
skildir bliku þeirra
við inn skarða mána;
stigu ór söðlum
at salar gafli,
gengu inn þaðan
endlangan sal.

9. Sá þeir á bast
bauga dregna,
sjau hundruð allra,
er sá seggr átti;
ok þeir af tóku,
ok þeir á lètu,
fyr einn utan,
er þeir af lètu.

10. Kom þar af veiði
veðreygr skyti,
Völundr, líðandi
um langan veg;
gekk brúnni
beru hold steikja,
*ár* brann hrísi
allþurr fura,
viðr inn vindþurri,
fyr Völundi.

11. Sat á berfjalli,
bauga taldi
álfa ljóði,
eins saknaði;
hugði hann, at hefði
Hlöðvès dóttir,
ál*m*vítr unga,
væri hon aptr komin.

12. Sat hann svá lengi,
at hann sofnaði,
ok hann vaknaði
viljalauss:
vissi sèr á höndum
höfgar nauðir,
en á fótum
fjötur um spentan.

13. „Hverir 'ru jöfrar
þeir er á lögðu
besti byr síma
ok mik bundu?“
Kallaði nú Níðuðr
Njara dróttinn:

* * *

14. „Hvar gaztu, Völundr,
vísi álfa!
vára aura
í Úlfdölum?
gull var*a* þar
á Grana leiðu,
fjarri hugða*k* várt land
fjöllum Rínar.“

15. „Man ek, at vèr meiri
mæti áttum,
er vèr heil hjú
heima várum:

Hlaðguðr ok Hervör,
borin var Hlöðvè,
kunn var Ölrún
Kjárs dóttir.“

16. *Úti stendr kunnig*
*kván Níðaðar*,
*ok* hon inn um gekk
endlangan sal,
stóð á gólfi,
stilti röddu:
„Era sá nú hýrr,
er ór holti ferr.“

Níðuðr konungr gaf dóttur sinni Böðvildi gullhring þann er hann tók af bastinu at Völundar; en hann sjálfr bar sverðit, er Völundr átti. En dróttning kvað:

17. „Ámun eru augu
ormi þeim inum frána,
tenn hánum teygjask,
er hánum er tèt sverð,
†ok hann Böðvildar
baug um þekkir;
sníðið èr hann
sina magni,
ok setið hann síðan
í Sævarstöð!“

Svá var gört, at skornar váru sinar í knèsfótum, ok settr í hólm einn, er þar var fyr landi, er hèt Sævarstaðr. Þar smíðaði hann konungi allskyns görsimar. Engi maðr þorði at fara til hans, nema konungr einn. Völundr kvað:

18. „Skínn Níðaði
sverð á linda,
þat er ek hvesta,
sem ek hagast kunna,
†ok ek herðak,
sem mèr hœgst þótti;
sá er mèr fránn mækir
æ fjarri borinn,
sèka*t* ek þann Völundi
til smiðju borinn.

19. Nú berr Böðvildr
brúðar minnar
— bíðka*t* ek þess bót —
bauga rauða.“
Sat hann, nè hann svaf, ávalt,
ok hann sló hamri,
vèl görði hann heldr
hvatt Níðaði.

20. Drifu ungir tveir
á dyr*r* sjá
synir Níðaðar
í Sævarstöð.

21. Kómu þeir til kistu,
kröfðu lukla,
opin var illúð,
en þeir í sá;
fjöld var þar menja,
er þeim mögum sýndisk
at væri gull rautt
ok görsimar.

22. „Komið einir tveir,
komið annars dags!
ykkr læt ek þat gull
um gefit verða;
segiða meyjum
nè salþjóðum,
manni öngum,
at it mik fyndið!“

23. Snemma kallaði
seggr annan,
bróðir á bróður:
„Göngum baug sjá!“
Kómu til kistu,

kröfðu lukla,
opin var illúð,
er þeir í litu.
24. Sneið af höfuð
húna þeirra
ok und. fen fjöturs
fœtr um *la*gði;
en þær skálar,
er und skörum váru,
sveip hann utan silfri,
seldi Níðaði.
25. En ór augum
jarknasteina
sendi hann kunnigri
k*ván* Níðaðar;
en ór tönnum
tveggja þeirra
sló hann brjóstkringlur,
sendi Böðvildi.
26. Þá nam Böðvildr
baugi at hrósa,
* * *
*bar hann Völundi*,
er brotit hafði:
„Þoriga*k* at segja,
nema þèr einum.“
27. „Ek bœti svá
brest á gulli,
at feðr þínum
fegri þykkir
ok mœðr þinni
miklu betri
ok sjálfri þèr
at sama hófi.“
28. Bar hann hana bjóri,
þvíat hann betr kunni,
svá at hon í sessi
um sofnaði.
„Nú hefi*k* hefnt
harma minna
allra, nema einna
íviðgjarnra.“
29. „Vel ek!“ kvað Völundr,
„verða*k* á fitjum,
þeim er mik Níðaðar
námu rekkar!“
Hlæjandi Völundr
hófsk at lopti,
grátandi Böðvildr
gekk ór eyju,
† tregði för friðils
ok föður reiði.
30. Úti stendr kunnig
kván Níðaðar,
ok hon inn um gekk
endlangan sal
— en hann á salgarð
settisk at hvílask —:
„Vakir þú? Níðuðr
Njara dróttinn!“
31. „Vaki*k* ávalt
vilja*l*auss,
sofna*k* minst
síz mína sonu dauða;
kell mik í höfuð,
köld eru mèr ráð þín,
vilnumk ek þess nú,
at ek við Völund dœma.
32. Seg þú mèr þat, Völundr,
vísi álfa!
af heilum hvat varð
*hú*num mínum?“
33. „Eiða skaltu mèr áðr
alla vinna:
at skips borði
ok at skjaldar rönd,
at mars bœgi
ok at mækis egg:
34. At þú kveliat
kván Völundar,

nè brúði minni
at bana verðir,
þótt vèr kván eigim
þá er þèr kunnið,
eð*a* jóð eigim
innan hallar.

35. Gakk þú til smiðju
þeirrar er þú görðir!
þar fiðr þú belgi
blóði stokna:
sneið ek af höfuð
húna þinna
ok un*d* fen fjöturs
fœtr um lagðak.

36. En þær skálar,
er und skörum váru,
sveip ek utan silfri,
se*l*da*k* Níðaði;
en ór augum
jarknasteina
senda*k* kunnigri
kván Níðaðar.

37. En ór tönnum
tveggja þeirra
sló ek brjóstkringlur,
senda*k* Böðvildi;
nú gengr Böðvildr
barni aukin,
einga dóttir
ykkur beggja."

38. „Mæltira þú þat mál,
er mik meirr tregi,
nè ek þik vilja Völundr!
verr um níta;
erat svá maðr hár,
at þik af hesti taki,
†nè svá öflugr,
at þik neðan skjóti,
þar er þú skollir
við ský uppi."

39. Hlæjandi Völundr
hófsk at lopti,
en ókátr Níðuðr
sat þá eptir.

40. „Upp rístu, þak*k*ráðr,
þræll minn inn bezti!
bið þú Böðvildi,
mey 'na bráhvítu,
ganga fagrvarið
við föður rœða!

41. Er þat satt, Böðvildr!
er sögðu mèr:
sátuð it Völundr
saman í hólmi?"

42. „Satt er þat, Níðaðr!
er sagði þèr:
sátu vit Völundr
saman í hólmi
†eina ögurstund,
æva skyldi;
ek vætr hánum
*vinna* kunnak,
ek vætr hánum
vinna máttak."

# HELGAKVIÐA HJÖRVARÐSSONAR.

I.

Hjörvarðr hèt konungr, hann átti fjórar konur: ein hèt Álfhildr, son þeirra hèt Hèðinn; önnur hèt Særeiðr, þeirra son hèt Humlungr; in þriðja hèt Sinrjóð, þeirra son hèt Hymlingr. Hjörvarðr konungr hafði þess heit strengt, at eiga þá konu, er hann vissi vænsta. Hann spurði, at Sváfnir konungr átti dóttur allra fegrsta, sú hèt Sigrlinn. Iðmundr hèt jarl hans; Atli var hans son, er fór at biðja Sigrlinnar til handa konungi.*

Atli jarls son stóð einn dag við lund nökkurn, en fugl sat í limunum uppi yfir hánum ok hafði heyrt til, at hans menn kölluðu vænstar konur þær er Hjörvarðr konungr átti. Fuglinn kvakadi, en Atli hlýddi, hvat hann sagði; hann kvað:

1. „Sáttu Sigrlinn
Sváfnis dóttur,
mey 'na fegrstu
í munarheimi?
þó *er* hagligar
Hjörvarðs konur
gumnum þykkja
at Glasis lundi.“

2. „Mundu við Atla
Iðmundar son,
fugl fróðhugaðr!
fleira mæla?“
— „Mun ek, ef mik buðlungr
blóta vildi,
ok kýs ek þaz ek vil
ór konungs garði.“

3. „Kjósattu Hjörvarð
nè hans sonu,
nè inar fögru
fylkis brúðir,
eigi brúðir þær
er buðlungr á!
kaupum vel saman!
þat er vina kynni.“

4. „Hof mun ek kjósa,
hörga marga,
gullhyrndar kýr
frá grams búi,
ef hánum Sigrlinn
sefr á armi
ok ónauðig
jöfri fylgir.“

þetta var, áðr Atli færi. — *Hann dvaldisk vetrlangt með Sváfni konungi. Fránmarr hèt þar jarl, fóstri Sigrlinnar; dóttir hans hèt Álöf. Jarlinn rèð, at meyjar var synjat, ok fór *Atli* heim. — En er hann kom heim, ok konungr spurði hann tíðinda,* kvað hann:

5. „Höfum erfi*di*
ok ekki örindi:
mara þraut óra
á meginfjalli,
urðum síðan

Sæmorn vaða;
þá var oss synjat
Sváfnis dóttur
hringum gœddrar,
er vèr hafa vildum.“

Konungr bað, at þeir skyldu fara annat sinn; *ok* fór hann sjálfr. En er þeir kómu upp á fjall, ok sá á Sváfaland landsbruna ok jóreyki stóra. Reið konungr af fjallinu fram í landit ok tók náttból við á eina. Atli hèlt vörð ok fór yfir ána; hann fann eitt hús; fugl mikill sat á húsinu ok gætti, ok var sofnaðr. Atli skaut spjóti fuglinn til bana; en í húsinu fann hann Sigrlinn konungs dóttur ok Álöfu jarls dóttur ok hafði þær báðar braut með sèr. Fránmarr jarl haf*ð*i hamazk í arnar líki ok varit þær fyrir hernum með fjölkyngi. Hróðmarr hèt konungr, biðill Sigrlinnar; hann drap Sváfa-konung ok hafði rænt ok brent landit. Hjörvarðr konungr fèkk Sigrlinnar, en Atli Álöfar.

---

II.

Hjörvarðr ok Sigrlinn áttu son mikinn ok vænan; hann var þögull, ekki nafn festisk við hann. Hann sat á haugi, hann sá ríða valkyrjur níu, ok var ein göfugligust; hon kvað:

6. „Síð mundu, Helgi!
hringum ráða,
ríkr rógapaldr!
nè Röðulsvöllum,
— örn gól árla —
ef þú æ þegir,
þóttu harðan hug,
hilmir! gjaldir.“

7. „Hvat lætr þú fylgja
Helga nafni,
brúðr bjartlituð!
alls þú bjóða ræðr?
hygg þú fyr öllum
atkvæðum vel!
þi*kk*at ek þat,
nema þik hafa*k*.“

8. „Sverð veit ek liggja
í Sigarshólmi
fjórum færa
en fimm togu;
eitt er þeirra
öllum betra
vígnesta böl
ok varit gulli.

9. Hringr er í hjalti,
hugr er í miðju,
ógn er í oddi
þeim er eiga getr;
liggr með eggju
ormr dreyrfáðr,
en á valböstu
verpr naðr hala.“

Eylimi hèt konungr, dóttir hans var Sváfa, hon var valkyrja ok reið lopt ok lög; hon gaf Helga nafn þetta ok hlífði hánum opt síðan í orrostum. Helgi kvað:

10. „Ertattu, Hjörvarðr!
heilráðr konungr,
fólks oddviti!
þóttu frægr sèr:
lèztu eld eta
jöfra bygðir,
en þeir angr við þik
ekki görðu.

11\. En Hróðmarr skal
hringum ráða,
þeim er áttu
órir niðjar;
sá sèsk fylkir
fæst at lífi,
hyggsk aldauðra
arfi at ráða."

Hjörvarðr svarar, at hann mundi fá lið Helga, ef hann vill hefna móðurföður síns. Þá sótti Helgi sverðit, er Sváfa vísaði hánum til; þá fór *hann* ok Atli ok feldu Hróðmar ok unnu mörg þrekvirki.

III.

Hann drap Hata jötun, er hann sat á bergi nökkurn. Helgi ok Atli lágu skipum í Hatafirði; Atli hèlt vörð inn fyrra hlut nætrinnar. Hrímgerðr Hata dóttir kvað:

12\. „Hverir 'ru höldar
í Hatafirði?
skjöldum er tjaldat á skipum*;
frœknliga látið,
fátt hygg ek yðr sjásk,
kennið mèr nafn konungs!"

Atli kvað:

13\. „Helgi hann heitir,
en þú hvergi mátt
vinna grand grami:
járnborgir 'ru
um öðlings flota,
knegut oss fálur fara."

14\. „Hve þ*ú* heitir*?
halr inn ámátki!
hve þik kalla konir?
fylkir þèr trúir,
er þik í fögrum lætr
beits stafni búa."

15\. „Atli ek heiti,
atall skal ek þèr vera,
mjök em ek gífrum gramastr;
úrgan stafn
ek hefi opt búit
ok kvaldar kveldriður.

16\. Hve þú heitir?
hála nágráðug!
nefndu þinn, fála, föður!
níu röstum
er þú skyldir neðarr vera,
ok vaxi þèr á baðmi barr."

17\. „Hrímgerðr ek heiti,
Hati hèt minn faðir,
þann vissa*k* ámátkastan jötun:
margar brúðir
hann lèt frá búi teknar,
unz hann Helgi hjó."

18\. „Þú vart, hála!
fyr hildings skipum
ok látt í fjarðar mynni fyrir:
ræsis rekka
er þú vildir Rán gefa,
ef þèr kœmit í þverst þvari."

19\. „Duliðr ertu nú, Atli!
draums kveð ek þèr vera,
síga lætr þú brýnn fyr brár:
móðir mín lá
fyr mildings skipum,
ek drekta Hlöðvarðs sonum í hafi.

20\. Gneggja myndir þú, Atli!
ef þú geldr ne værir,
brettir sinn Hrímgerðr hala;
aptarla hjarta
hygg ek at þitt, Atli! sè,
þótt þú hafir *r*eina rödd."

21\. „Re*im*i mun þèr ek þykkja,
ef þú reyna knátt,
ok stíga*k** land af legi:

öll muntu lemjask,
ef mèr er alhugat,
ok sveigja þinn, *Hrímgerðr! hala."
22. „Atli! gakk þú á land,
ef afli treystisk,
ok hittumk í vík Varins!
rifja rètti
er þú munt, rekkr! fá,
ef þú mèr í krummur kemr."
23. „Munka*t* ek ganga,
áðr gumnar vakna
ok halda of vísa vörð:
era mèr örvænt,
nær óru komir
skass! upp undir skipi."
*Hrímgerðr kvað*:
24. „Vaki þú, Helgi!
ok bœt við Hrímgerði,
er þú lèzt höggvinn Hata!
eina nótt
kná hon hjá jöfri sofa,
þá hefir hon bölva bœtr."
*Helgi kvað*:
25. „Loðinn heitir, er þik skal eiga,
leið ertu mannkyni,
sá býr í þolleyju þurs:
hundvíss jötunn,
hraunbúa verstr,
sá er þèr makligr maðr."
*Hrímgerðr kvað*:
26. „Hina villdu heldr, Helgi!
er rèð hafnir skoða
fyrri nótt með fírum:
mar*g*gullin mær
mèr þótti afli bera,
hèr stè hon land af legi
ok festi svá yðvarn flota.
27. Hon ein því veldr,
er ek mák*ak*
buðlungs mönnum bana."
*Helgi kvað*:
28. „Heyrðu nú, Hrímgerðr!
ef ek bœti harma þèr,
segðu görr grami:
var sú ein vættr,
er barg öðlings skipum,
eða fóru þær fleiri saman?"
*Hrímgerðr kvað*:
29. „þrennar níundir meyja,
þó reið ein fyrir
hvít und hjálmi mær;
marir hristusk,
stóð af mönum þeirra
dögg í djúpa dali,
hagl í háva viðu;
þaðan kemr með öldum ár,
allt var mèr þat leitt, er ek leitk."
*Atli kvað*:
30. „Austr líttu nú, Hrímgerðr!
ef þik lostna hefir
Helgi helstöfum;
á landi ok á *legi*
borgit er *lofðungs* flota
ok siklings mönnum it sama."
*Helgi kvað*:
31. „Dagr er nú, Hrímgerðr!
en þik dvalda hefir
Atli til aldrlaga;
hafnarmark þykkir
hlœgligt vera,
þars þú í steins líki stendr.

---

IV.

Helgi konungr var allmikill hermaðr; hann kom til Eylima konungs ok bað Sváfu, dóttur hans.

þau Helgi ok Sváfa veittusk várar ok unnusk furðu mikit. Sváfa var heima með feðr sínum, en Helgi í hernaði; var Sváfa valkyrja enn sem fyrr.

Hèðinn var heima með föður sínum, Hjörvarði konungi, i Noregi. Hèðinn fór einn saman heim ór skógi jólaaptan ok fann trollkonu; sú reið vargi ok hafði orma at taumum, ok bauð fylgð sína Hèðni. Nei, sagði hann. Hon sagði: „þess skaltu gjalda at bragarfulli.“ Um kveldit váru heitstrengingar; var framleiddr sónargöltr, lögðu menn þar á hendr sínar, ok strengðu menn þá heit at bragarfulli. Hèðinn strengði heit til Sváfu Eylima dóttur, unnustu Helga bróður síns, ok iðraðisk svá mjök, at hann gekk á braut villistigu suðr á lönd, ok fann Helga bróður sinn. Helgi kvað:

32. „Komdu heill, Hèðinn!
hvat kantu segja
nýra spjalla
ór nor*ðrv*egi?
hví er þèr, stillir!
stökt ór landi,
ok ert einn kominn
oss at finna?“

33. „Mik hefir myklu glœpr
meiri sóttan:
ek hefi kerna
ina konungbornu
brúði þína
at bragarfulli.“

34. „Sakask*a* þú!
sönn munu verða
ölmál, Hèðinn!
okkur beggja.

35. Mèr hefir stillir
ste*fn*t til eyrar,
þriggja nátta
skylak þar koma;
if er mèr á því,
at ek aptr koma,
þá má at góðu
görask slíkt, ef skal.“

36. „Sagðir þú, Helgi!
at Hèðinn væri
góðs verðr frá þèr
ok gjafa stórra;
þèr er sœmra
sverð at rjóða,
en frið gefa
fjandum þínum.“

* þá kvað Helgi:

37. „Reið á vargi,
er rö*k*kvit var,
fljóð eitt, er *Hèðin*
fylgju beiddi:
hon vissi þat,
at veginn mundi
Sigrlinnar sonr
á Sigarsvöllum.“

þat kvað Helgi, þvíat hann grunaði um feigð sína, ok þat at fylgjur hans höfðu vitjat Hèðins, þá er hann sá konuna ríða varginum.

Álfr hèt konungr, son Hróðmars, er Helga hafði völl haslaðan á Sigarsvelli á þriggja nátta fresti.*

þar var orrosta mikil, ok fèkk þar Helgi banasár.

38. Sendi Helgi
Sigar at ríða
eptir Eylima
einga dóttur:
biðr bráðliga

búna verða,
ef hon vill finna
fylki kvikvan.

*Sigarr kvað*:

39. „Mik hefir Helgi
hingat sendan,
við þik, Sváfa!
sjálfa at mæla:
þik kvazk hilmir
hitta vilja,
áðr ítrborinn
öndu týndi."

*Sváfa kvað*:

40. H*vat* varð Helga
Hjörvarðs syni?
mèr er harðliga
harma leitat;
ef hann s*ax* um lèk,
eða sverð um beit,
þeim skal ek gumna
grand um vinna."

*Sigarr kvað*:

41. „Fèll hèr í morgun
at Frekasteini
buðlungr sá er var
baztr und sólu;
Álfr mun sigri
öllum ráða,
þótt þetta sinn
þörfgi væri."

*Helgi kvað*:

42. „Heil verðu, Sváfa!
hug skaltu deila,
sjá mun í heimi
hinztr fundr vera:
tjá buðlungi
blœða undir,
mèr hefir hjörr komit
hjarta it næsta.

43. Bið ek þik, Sváfa!
— brúðr, gráttattu! —
ef þú vill mínu
máli hlýða:
at þú Hèðni
hvílu görvir
ok jöfur ungan
ástum leiðir."

*Sváfa kvað*:

44. „Mælt hafða*k* þat
í munarheimi,
þá er mèr Helgi
hringa valdi:
myndiga*k* lostig
at liðinn fylki
jöfur ókunnan
armi verja."

*Hèðinn kvað*:

45. „Kystu mik, Sváfa!
kem*kat* ek áðr
Rogheims á vit
nè Röðulsfjalla,
áðr ek hefnt hefik
Hjörvarðs sonar,
þess er buðlungr *var*
beztr und sólu."

Helgi ok Sváfa er sagt at væri endrborin.

# HELGAKVIÐA HUNDINGSBANA

## HIN FYRRI.

1. Ár var alda
þat er arar gullu,
hnigu heilög vötn
af Himinfjöllum:
þá hafði Helga
inn hugumstóra
Borghildr borit
í Brálundi.

2. Nótt varð i bœ,
nornir kvámu,
þær er öðlingi
aldr um skópu:
þann báðu fylki
frægstan verða
ok buðlunga
beztan þykkja.

3. Sneru þær af afli
örlögþáttu,
þá er borgir braut
í Brálundi:
þær um greiddu
gullin símu
ok und mánasal
miðjan festu.

4. Þær austr ok vestr
enda fálu,
þar átti lofðungr
land á milli;
brá nipt Nera
á norðrvega
einni festi,
ey bað hon halda.

5. Eitt var at angri
Ylfinga nið,
er þeirri meyju
m*ei*núð fœddi:
hrafn kvað at hrafni
— sat á hám meiði
andvanr átu —:
„Ek veit nökkut.

6. Stendr í brynju
burr Sigmundar
dœgrs eins gamall,
nú er dagr kominn;
hvessir augu
sem hildingar,
sá er varga vinr,
vit skulum teitir."

7. Drótt þótti sá
döglingr vera,
kváðu með gumnum
*goð*-ár kominn;
sjálfr gekk vísi
ór vígþrimu,
ungum fœra
ítrlauk grami.

8. Gaf hann Helga nafn
ok Hringstaði,
Sólfjöll, Snæfjöll
ok Sigarsvöllu,

Hringstöð, Hátún
ok Himinvanga,
blóðorm búinn
brœðr Sinfjötla.

9. þá nam at vaxa
fyr vina brjósti
álmr ítrborinn
yndis ljóma;
hann galt ok gaf
gull verðungu,
sparðit hilmir
hodd blóðrekinn.

10. Skamt lèt vísi
vígs at bíða,
þá er fylkir var
fimtán vetra:
ok hann harðan lèt
Hunding veginn,
þann er lengi rèð
löndum ok þegnum.

11. Kvöddu síðan
Sigmundar bur
auðs *ok* hringa
Hundings synir;
þvíat þeir áttu
jöfri at gjalda
fjárnám mikit
ok föður dauða.

12. Lètat buðlungr
bótir uppi,
nè niðja in heldr
nefgjöld fá:
ván kvað hann mundu
veðrs ins mikla
grára geira
ok gremi Óðins.

13. Fara hildingar
hjörstefnu til,
þeirrar er lögðu
at Logafjöllum:
sleit Fróða frið
fjanda á milli,
fara Viðris grey
valgjörn um ey.

14. Settisk vísi,
þá er vegit hafði
Álf ok Eyjólf,
und arasteini,
Hjörvarð ok Hervarð,
Hundings sonu,
farit hafði hann allri
ætt geirmímis.

15. þá brá ljóma
af Logafjöllum,
en af þeim ljómum
leiptrir kvámu.

16. *Sá þar mildingr*
*meyjar ríða*
*h*ávar und hjálmum
á Himinvanga:
brynjur váru þeirra
blóði stoknar,
en af geirum
geislar stóðu.

17. Frá árliga
ór úlfiði
döglingr at því
dísir suðrœnar:
ef þær vildi heim
með hildingum
þá nótt fara;
þrymr var álma.

18. En af hesti
Högna dóttir
— líddi randa rym —
ræsi sagði:
„Hygg ek, at vèr eigim
aðrar sýslur,

en með baugbrota
bjór at drekka.
19. Hefir minn faðir
meyju sinni
grimmum heitit
Granmars syni;
en ek hefi, Helgi!
Höðbrodd kveðinn
konung óneisan
sem kattar son.
20. þó kemr fylkir
fára nátta
[*ok hefir heim með sèr*
*Högna dóttur*]:
nema þú hánum vísir
valstefnu til,
eða mey nemir
frá mildingi."
*Helgi kvað*:
21. „Uggia þú
Ísungs bana!
fyrr mun dólga dynr,
nema ek dauðr sják."
22. Sendi áru
allvaldr þaðan
of l*and* ok um lög,
leiðar at biðja:
iðgnógan
ógnar ljóma
brögnum bjóða
ok burum þeirra.
23. „Biðið skjótliga
til skipa ganga
ok *at* Brandeyju
búna verða!"
þaðan beið þengill,
unz þing kvámu
halir hundmargir
ór Hèðinseyju.
24. Ok þar af st*r*öndum
ór Stafnsnesi
beit her*mörg* skriðu
ok búin gulli;
spurði Helgi
Hjörleif at því:
„Hefir þú kannaða
koni óneisa?"
25. En ungr konungr
öðrum sagði,
seint kvað at telja
af Trönueyri
langhöfðuð skip
und líðöndum,
þau er í Örvasund
utan fóru.
26. „Tólf hundruð
tryggra manna;
þó er í Hátúnum
hálfu fleira
víglið konungs,
ván erum*k* rómu."
27. Svá brá stýrir
stafntjöldum af,
at mildinga
mengi vakti,
†ok döglingar
dagsbrún sjá,
ok siklingar
sneru upp við trè
vefnistingum
á Varinsfirði.
28. Varð ára ymr
ok járna glymr,
brast rönd við rönd,
reru víkingar:
eisandi gekk
und öðlingum
lofðungs floti

löndum fjarri.
29. Sva*rf* var at heyra,
er saman kvámu
Kólgu systir
ok kilir langir,
* * *
sem björg eða brim
brotna mundi.
30. Draga bað Helgi
há segl ofarr,
varðat hrönnum
höfn þingloga,
þá er ógurlig
Œgis dóttir
stagstjórn-mörum
steypa vildi.
31. En þeim sjálfum
Sigrún ofan
fólkdjörf um barg
ok fari þeirra:
snörisk ramliga
Rán ór hendi
gjálfrdýr konungs
at Gnípalundi.
32. Sa*m*t þar um aptan
í Unavágum
flaust fagrbúin
fljóta knáttu;
en þeir sjálfir
frá Svarinshaugi
með hermdar hug
her könnuðu.
33. Frá góðborinn
Guðmundr at því:
„Hverr er landreki
sá er liði stýrir,
ok hann feiknalið
fœrir at landi?"
34. Sinfjötli kvað,
slöng upp við rá
rauðum skildi,
rönd var ór gulli
— þar var sundvörðr
sá er svara kunni
ok við öðlinga
orðum skipta —:
35. „Segðu þat í aptan,
er svínum gefr
ok tíkr yðrar
teygir at solli:
at sè Ylfingar
austan komnir
gunnargjarnir
f*yr* Gnípalundi!
36. Þar mun Höðbroddr
Helga finna,
flugtrauðan gram,
í flota miðjum:
sá er opt hefir
örnu sadda,
meðan þú á kvernum
kystir þýjar."
*Guðmundr kvað*:
37. „Fátt mantu, fylkir!
fornra spjalla,
er þú öðlingum
ósönnu bregðr.
38. Þú hefir etnar
úlfa krásir
ok brœðr þínum
at bana orðit,
opt sár sogin
með svölum munni,
hefir í hreysi
hvarleiðr skriðit."
*Sinfjötli kvað*:
39. „Þú vart völva
í Varinseyju,

skollvís kona,
bartu skrök saman:
kvaztu engi mann
eiga vilja,
segg brynjaðan,
nema Sinfjötla.
40. þú vart, *it* skœða
skass! valkyrja
ötul, ámátlig
at Alföður:
mundu einherjar
allir berjask,
svevís kona!
um sakar þínar.
41. Níu áttu vit
á nesi Ságu
úlfa alna,
ek var einn faðir þeirra."
*Guðmundr kvað*:
42. „Faðir varattu
fenrisúlfa
öllum ellri,
svá at ek muna:
síz þik geldu
fyr Gnípalundi
þursameyjar
á þórsnesi.
43. Stjúpr vartu Siggeirs,
látt und stöðum heima,
vargljóðum vanr
á viðum úti:
† kómo þèr ógögn
öll at hendi,
þá er brœðr þínum
brjóst raufaðir,
görðir þik frægjan
af firinverkum."
*Sinfjötli kvað*:
44. „þú vart brúðr Grana
á Brávelli,
gullbitluð vart,
gör til rásar:
hafðak þèr móðri
mart skeið riðit
svangri und söðli,
simul! forbergis."
*Guðmundr kvað*:
45. „Sveinn þóttir þú
siðlauss vera,
þá er þú Gullnis
geitr mólkaðir,
en í annat sinn
imdar dóttir
tötrughypja;
vill þú tölu lengri?"
*Sinfjötli kvað*:
46. „Fyrr vilda*k*
at Frekasteini
hrafna seðja
á hræum þínum,
en tíkr yðrar
teygja at solli
eða gefa göltum;
deili gröm við þik!"
*Helgi kvað*:
47. „Væri ykkr, Sinfjötli!
sœmra myklu
gunni at heyja
ok glaða örnu,
en sè ónýtum
orðum at bregðask,
þótt hringbrotar
heiptir deili.
48. þykkjat mèr góðir
Granmars synir,
þó dugir siklingum
satt at mæla:
þeir hafa markat

á Móinsheimum,
at hug hafa
hjör*um* at bregða."
49. þeir af ríki
renna lètu
Svipuð ok Sveggjuð
Sólheima til
dala döggótta,
dökkvar hlíðir;
skalf Mistar marr,
hvar*s* megir fóru.
50. *Úti stóð Höðbroddr
hjálmi faldinn,
hugði hann jóreið
ættar sinnar:
„Hví er hermdar litr
á Hniflingum?"
51. Mœttu þeir tiggja
í túnhliði,
sögðu stríðliga
stilli kvámu:*
„Snúask hèr at sandi
snæfgir kjólar,
rakka hirtir
ok rár langar,
52. Skildir margir,
skafnar árar,
göfukt lið gylfa,
glaðir Ylfingar;
ganga fimtán
fólk upp á land,
þó er í sogn út
sjau þúsundir.
53. Liggja hèr í grindum
fyr Gnípalundi
brimdýr blásvört
ok búin gulli;
þar er miklu mest
mengi þeirra,
muna nú Helgi
hjörþing dvala."
*Höðbroddr kvað*:
54. „Renni rökn bitluð
til reginþinga:*
Mèlnir ok Mýlnir
til Myrkviðar,
*en Sporvitnir
at Sparinsheiði!
55. Látið engi mann
eptir sitja
þeirra er benlogum
bregða kunni!
56. Bjóðið èr Högna
ok Hrings sonum,
Atla ok Yngva,
*Á*lf inum gamla!
þeir 'ru gjarnir
gunni at heyja;
látum Völsunga
viðrnám fá!"
57. Svipr einn var þat,
er saman kvámu
fölvir oddar
at Frekasteini:
ey var Helgi
Hundings bani
fyrstr í fólki,
þar er fírar börðusk,
†œstr á ímu,
alltrauðr flugar;
sá hafði hilmir
hart móðakarn.
58. Kómu þar ór himni
hjálmvítr ofan
— óx geira gnýr —,
þær er grami hlífðu;
þá kvað þat Sigrún,
sárvítr fluga

— át *hálu* skær
af hugins barri —:
59. „Heill skaltu, vísi!
virða njóta,
áttstafr yngva!
ok una lífi:
er þú felt hefir
inn flugartrauða
jöfur þann er olli
œgis dauða.

60. †Ok þèr, buðlungr!
samir bæði vel
rauðir baugar
ok in ríkja mær;
heill skaltu, buðlungr!
bæði njóta
Högna dóttur
ok Hringstaða,
sigrs ok landa;
þá er sókn lokit.“

# HELGAKVIÐA HUNDINGSBANA

## ÖNNUR

eða

## VÖLSUNGAKVIÐA HIN FORNA.

---

Sigmundr konungr Völsungs son átti Borghildi af Brálundi; þau hètu son sinn Helga, ok eptir Helga Hjörvarðs syni; Helga fóstraði Hagall. Hundingr hèt ríkr konungr, við hann er Hundland kent. Hann var hermaðr mikill ok átti marga sonu þá er í hernaði váru. Ófriðr ok dylgjur váru á milli þeirra Hundings konungs ok Sigmundar konungs, drápu hvárir annarra frændr. Sigmundr konungr ok hans ættmenn hètu Völsungar ok Ylfingar.

Helgi fór ok njósnaði til hirðar Hundings konungs á laun; Hemingr son Hundings konungs var heima. En er Helgi fór í braut, þá hitti hann hjarðar*svein* ok kvað:

1. „Segðu Hemingi,
at Helgi man,
hvern í brynju
bragnar feldu:
èr úlf grán
inni höfðuð,
þar er Hamal hugði
Hundingr konungr.“

Hamall hèt son Hagals. Hundingr konungr sendi menn til Hagals at leita Helga; en Helgi mátti eigi forðask annan veg, en tók klæði ambóttar ok gekk at mala. Þeir leituðu ok fundu eigi Helga.

2. Þá kvað *þat* Blindr
inn bölvísi:
„Hvöss eru augu
í Hagals þýju:
era þat karls ætt,
er á kvernum stendr,
steinar rifna,
stökkr lúðr fyrir.

3. Nú hefir hörð dœmi
hildingr þegit,
er vísi skal
valbygg *mala*;
heldr er sœmri
hendi þeirri
meðalkafli
en möndultrè“.

Hagall svaraði ok kvað:

4. „Þat er lítil vá,
þótt lúðr þrumi,
er mær konungs
möndul hrœrir:*
systir er hon þeirra
Sigars ok Högna,
því hefir ötul augu

Ylfinga man.
5. *Hon skævaði
skýjum efri
ok vega þorði
sem víkingar,
áðr hana Helgi
höptu gœrði."

Undan komsk Helgi ok fór á herskip; hann feldi Hunding konung ok var síðan kallaðr Helgi Hundingsbani.

---

Hann lá með her sinn í Brunavágum ok hafði þar strandhögg, ok átu þar rátt. Högni hèt konungr; hans dóttir hèt Sigrún, hon var valkyrja ok reið lopt ok lög; hon var Svá*fa* endrborin. Sigrún reið at skipum Helga ok kvað:

6. „Hverir láta fljóta
fley við bakka?
hvar, hermegir!
heima eiguð?
hvers bíðið èr
í Brunavágum?
hvert lystir yðr
leið at kanna?"
7. „Hamall lætr fljóta
fley við bakka,
eigum heima
í Hlèseyju,
bíðum byrjar
í Brunavágum,
austr lystir oss
leið at kanna."
8. „Hvar hefir þú, hilmir!
hildi vakta
eða gögl alin
Gunna*r* systra?
hví er brynja þín
blóði stokkin?
hví skal und hjálmum
hrátt kjöt eta?"
9. †„Þat vann næst nýs
niðr Ylfinga
fyr vestan ver,
ef þik vita lystir:
er ek björnu tók
í Bragalundi
ok ætt ara
oddum saddak;
nú er sagt, mær!
hvaðan s*erkir* gorðusk,
því var á legi mèr
lítt steikt etit."
10. „Víg lýsir þú:
varð fyr Helga
Hundingr konungr
hníga at velli;
bar sókn saman,
er sefa hefnduð,
ok busti blóð
á brímis eggjar."
11. „Hvat vissir þú,
at *vèr* sè*m*,
snót svinnhuguð!
er sefa hefndu*m*?
margir 'ru hvassir
hildings synir
ok ámunir
ossum niðjum."
12. „Varka*t* ek fjarri,
fólks oddviti!
ger *í* morgun
grams aldrlokum;
þó tel ek slœgjan
Sigmundar bur,
er í valrúnum

vígspjöll segir.
13. Leit ek þik um sinn
fyrr á langskipum,
þá er þú bygðir
blóðga stafna,
†ok úrsvalar
unnir lèku;
nú vill dyljask
döglingr fyr mèr,
en Högna mær
*Helga* kennir".

---

Granmarr hèt ríkr konungr, er bjó at Svarinshaugi; hann átti marga sonu: *hèt einn* Höðbroddr, annarr Guðmundr, þriði Starkaðr. Höðbroddr var í konungastefnu, hann fastnaði sèr Sigrúnu Högna dóttur. En er hon spyrr þat, þá reið hon með valkyrjur um lopt ok um lög at leita Helga. Helgi var þá at Logafjöllum ok hafði barizk við Hundings sonu; þar feldi hann þá Álf ok Eyjólf, Hjörvarð ok Hervarð, ok var hann allvígmóðr ok sat undir Arasteini; þar hitti Sigrún hann ok rann á háls hánum ok kysti hann ok sagði hánum erendi sitt, svá sem segir í Völsunga kviðu inni fornu:

14. Sótti Sigrún
sikling glaðan,
heim nam hon Helga
hönd at sœkja,
kysti ok kvaddi
konung und hjálmi;
þá varð hilmi
hugr á vífi.
15. *Nama Högna mær
of hug mæla,
hafa kvazk hon Helga
hylli skyldu:
fyrr lèzk hon unna
af öllum hug
syni Sigmundar,
en hon sèt hafði.
16. „Var ek Höðbroddi
í her fōstnuð,
en jöfur annan
eiga vildak;
þó sjámk, fylkir!
frænda reiði:
hefi*k* míns föður
munráð brotit." *
17. Hirð*attu Höðbrodd*
*nè* Högna reiði
nè illan hug
ættar þinnar!
þú skalt, mær ung!
at mèr lifa;
æt*l*attu, in góða,
er ek sjámk!"

Helgi samnaði þá miklum skipaher ok fór til Frekasteins, ok fengu í hafi ofviðri mannhætt; þá kvámu leiptr yfir þá, ok stóðu geislar í skipin. Þeir sá í loptinu, at valkyrjur níu riðu, ok kendu þeir Sigrúnu; þá lægði storminn, ok kvámu þeir heilir til lands.

Granmars synir sátu á bjargi nökkuru, er skipin sigldu at landi. Guðmundr hljóp á hest ok reið á njósn á bergit við höfnina; þá hlóðu Völsungar seglum. Þá kvað Guðmundr, svá sem fyrr er ritat í Helga kviðu:

„Hverr er fylkir
sá er flota stýrir

ok feiknalið
fœrir at landi?“

Sinfjötli Sigmundar son svaraði, ok *er* þat enn ritat.*

Þetta kvað Guðmundr Granmars son:

18. „Hverr er skjöldungr
sá er skipum stýrir,
lætr gunnfana
gullinn fyrir stafni?
þykkia mèr frið*r*
í farar broddi,
verpr vígroða
um víkinga.“

Sinfjötli kvað:

19. „Hèr má Höðbroddr
Helga kenna
flótta trauðan
í flota miðjum;
hann hefi*r* eðli
ættar þinnar,
arf Fjörsunga,
und sik þrungit.“

*Guðmundr kvað*:

20. „Því fyrr skúlu*m*
at Frekasteini
sáttir saman
um sakar dœma;
mál *kveð* ek Höðbroddi
hefnd at vinna,
ef vèr lægra hlut
lengi bárum.“

*Sinfjötli kvað*:

21. „Fyrr mundu, Guðmundr!
geitr um halda
ok bergskorar
brattar klífa,
hafa þèr í hendi
heslikylfu;
þat er þèr blíðara
en brímis dómar.“

*Helgi kvað*:

22. „Þèr er, Sinfjötli!
sœmra myklu
gunni at heyja
ok glaða örnu,
en ónýtum
orðum at *bregða*,
þótt hildingar
heiptir deili.

23. Þykkj*a*t mèr góðir
Granmars synir,
þó dugir siklingum
satt at mæla:
þeir merkt hafa
á Móins*heimum*,
at hug hafa
hjörum at bregða,
† eru hildingar
helzti snjallir.“

*Guðmundr reið heim með hersögu; þá sömnuðu Granmars synir her. Kómu þar margir konungar: þar var Högni faðir Sigrúnar ok synir hans Bragi ok Dagr. Þar var orrosta mikil, ok fèllu allir Granmars synir ok allir þeirra höfðingjar, nema Dagr Högna son, fèkk grið ok vann eiða Völsungum. Sigrún gekk í valinn ok hitti Höðbrodd at kominn dauða. Hon kvað:

24. „Muna þèr Sigrún
frá Sefafjöllum,
Höðbroddr konungr!
hníga at armi;
liðin er ævi
— opt náir hr*æ*vi

eig*n*a seld*i*
ok mèr jóðungri
a*u*ra taldi.
37. Þá var á hvörfun
hugr minn um þat,
hvárt ek skylda vega
eða val fella
†böll í brynju
um bróður sök:
þat mundi þá
þjóðkunt vera,
mörgum manni
at munar stríði.
38. Lètum síga *saman*
sáttmál okkur;
lèk mèr meirr í mun
meiðmar þiggja:
bauga rauða
burar Sigmundar;
nè ek annars manns
aura vildak.
39. *Þeim hètumk þá
*þjóðkonungi*,
er með gulli sat
á Grana bógum:
varat hann í augu
yðr um líkr,
†nè á engi hlut
at álitum,
þó þykkizk èr
þjóðkonungar.
40. Unna*k* einum,
nè ýmissum,
bjóat um hverfan
hug menskögul;
allt mun þat Atli
eptir finna,
er hann mína spyrr
morðför görva.
41. *Þ*eygi skal
þunngeð kona
annarrar ver
aldri leiða;
* * *
þa*t* mun a*t* hefndum
harma minna."
42. Upp reis Gunnarr,
gramr verðungar,
ok um háls konu
hendr um lagði;
gengu allir,
ok þó ýmsir,
af heilum hug
hana at letja.
43. Hratt *hon* af hálsi
h*v*eim þar sèr,
lèta mann sik letja
langrar göngu.
Nam hann sèr Högna
h*ei*ta at rúnum,
*þar átti hann*
*alls fulltrúa*:
44. „Seggi vil ek alla
í sal ganga
þína með mínum
— nú er þörf mikil —:
vita, ef meini
morðför konu,
unz af mèli
enn mein komi."*
45. Einu því Högni
andsvör veitti:
*„Þá látum því
þarfar ráða!
letia maðr hana
langrar göngu,
þars hon aptrborin
aldri verði!
46. Hon kröng of komsk
fyr knè móður,

[*aumlig vættr*
*illu heilli*:]
*var* hon æ borin
óvilja til,
mörgum manni
at móðtrega."

47. Hvarf sèr óhróðugr
andspilli frá,
þar er mörk menja
meiðmum deildi:
leit hon um alla
eigu sína,
soltnar þýjar
ok salkonur.

48. Gullbrynju smó,
vara gott í hug,
áðr sik miðlaði
mækis eggjum:
hnè við bólstri
hon á annan veg
ok hjörunduð
hugði at ráðum:

49. „Nú skulu ganga
*þær* er gull vilj*a*
minna þ*ýja*
at mèr þiggja:
ek gef hverri
um hroðit sigli,
bók ok blæju,
bjartar váðir."

50. Þögðu allir
*við því orði*,
ok allir senn
andsvör veittu:
„Œrnar soltnar,
munum enn lifa!
verða salkonur
sœmd at vinna."

51. Unz af hyggjandi
hörskrýdd kona
ung at aldri
orð viðr um kvað:
„Vilkat ek mann trauðan
nè torbœnan
um óra sök
aldri týna.

52. Þó mun á beinum
brenna yðrum
færi eyrir,
þá er èr fram komið
— nè *munuð èr*
*meirr um verða*
menju*m* gœd*dar* —
mín at vitja.

53. Seztu niðr, Gunnarr!
mun ek segja þèr
lífs örvæna
ljósa brúði;
muna yðvart far
allt í sundi,
þótt ek hafa
öndu látit.

54. Sátt munuð it Guðrún
snemr en þú hyggir,
[*mun hana Grimhildr*
*gœla ganga*:]
*sv*efr kunn kona
við kv*án* ung*ri*
daprar minjar
at dauðan ver.

55. [*Munuð í kölb Hálfs*
*hana finna*,]
þar er mær borin,
móðir fœðir:
sú mun hvítari
en inn heiði dagr
Svanhildr vera
sólar-geisla.

56. Gefa mundu Guðrúnu
góðra nökkurum

skrauti *gœdda*,
skatna mengi:
munat at vilja
versæl gefin,
hana mun Atli
eiga ganga,
† of borinn Buðla,
bróðir minn.
57. Margs á ek minnask,
hve við mik fóruð,
þá er mik sára
svikna höfðuð:
* * *
vaðin at vilja
vark, meðan ek lifðak.
58. Muntu Oddrúnu
eiga vilja,
en þik Atli mun
*æva* láta:*
hon mun þèr unna,
sem ek skyldak,
ef okkr góð um sköp
gerði verða.
59. *It munuð lúta
á laun saman,
[*þeygi lengi því*
*leyna meguð*:]
þik mun Atli
illu beita,
mundu í öngan
ormgarð lagiðr.
60. Þat mun ok verða
þvígit lengra,
at Atli mun
öndu týna,
† sælu sinni
ok sona lífi:
þvíat hánum Guðrún
grymir á beð
snörpum eggjum
af sárum hug.
61. Semri væri Guðrún
systir *y*kkur
frumver sínum
*at fylgja dauðum*,
ef henni gæfi
góðra ráð,
eða ætti hon hug
oss um líkan.
62. Óðrt mæli*k* nú,
en hon *æva* mun
of óra sök
aldri týna:
hana munu hefja
hávar bárur
til Jónakrs
óðaltorfu.
63. *Ala mun hon sèr jóð,*
*erfivörðu*,
er*f*iv*ö*r*ð*u,
Jónakrs so*na*;
mun hon Svanhildi
senda af landi,
sína mey
ok Sigurðar.
64. Hana munu bíta
Bikka ráð,
þvíat Jörmunrekr
óþarft lifir;
þá er öll farin
ætt Sigurðar,
eru Guðrúnar
grœti at fleiri.
65. Biðja mun ek þik
bœnar einnar,
sú mun í heimi
hinzt bœn vera:
láttu svá breiða
borg á velli,
at undir oss öllum

jafnrúmt sè,
† þeim er sultu
með Sigurði!

66. Tjaldi þar um þá borg
tjöldum ok skjöldum!
*sè þar* valaript vel fáð
ok Vala mengi!
[*brenni þar Brynhild*
*Buðla dóttur*!]
brenni mèr inn húnska
á hlið aðra!

67. Brenni inum húnska
*á* hlið aðra
mína þjóna
menjum göfga!
tveir at höfðum,
*tveir at fótum*,
*tveir hundar*
ok tveir haukar!
† þá er öllu skipt
til jafnaðar.

68. Liggi okkar enn i milli
málmr hringvariðr!
egghvast járn,
svá endr lagit,
þá er vit bæði
beð einn stigum,
ok hètum þá
hjóna nafni.

69. Hrynja hánum þá
á hæl þeygi
hlunnblik hallar
hringi litkuð:
ef hánum fylgir
ferð mín hèðan,
þeygi mun *ó*r för
aumlig vera.

70. Þvíat hánum fylgja
fimm ambóttir,
átta þjónar
eðlum góðir,
fóstrman mitt
ok faðerni,
þat er Buðli gaf
barni sínu.

71. Mart sagða*k*,
munda*k* fleira,
er mèr meirr mjötuðr
málrúm gæfi:
ómun þverr,
undir svella,
satt eitt sagðak,
svá mun ek láta.“

# HELREIÐ BRYNHILDAR.

Eptir dauða Brynhildar váru gör bál tvau: annat Sigurði, ok brann þat fyrr, en Brynhildr var á öðru brend, ok var hon í reið þeirri, er guðvefjum var tjölduð. Svá er sagt, at Brynhildr ók með reiðinni á helveg ok fór um tún, þar er gýgr nökkur bjó. Gýgrin kvað:

1. „Skal*attu* í gögnum
ganga eig*a*
grjóti studda
garða mína:
betr semdi þèr
borða at rekja æ,
heldr en vitja
vers annarrar.

2. Hvat skaltu vitja
af Vallandi,
hvarfúst höfuð!
húsa minna?
þú hefir, vár gulls!
ef þik vita lystir,
mild, af höndum
manns blóð þvegit."

3. „Bregð*attu* mèr,
brúðr ór steini!
þótt ek værak
í víkingu!
ek mun okkur
œðri þykkja,
hvars menn eðli
okkart kunna."

4. „Þú vart, Brynhildr
Buðla dóttir!
heilli verstu
í heim borin:
þú hefir Gjúka
um glatat börnum
ok búi þeirra
brugðit góðu."

5. „Ek mun segja þèr
svinn ór reiðu
vitlaussi mjök,
ef þik vita lystir:
hve görðu mik
Gjúka arfar
ástalausa
ok eiðrofa.

6. *Hètu mik allir
í Hlymdölum
Hildi un*d* hjálmi,
hverr er kunni.

7. †Lèt hami vára
hugfullr konungr
átta systra
undir eik borit;
var ek vetra tólf
ef þik vita lystir,
er ek ungum gram
eiða seldak.*

8. †Þá lèt ek gamlan
á Goðþjóðu
Hjálmgunnar næst
heljar ganga:
gaf ek ungum sigr
Auðu bróður,
þar varð mèr Óðinn

ofreiðr um þat.
9. †Lauk hann mik skjöldum
í Skatalundi
rauðum ok hvítum,
randir snurtu:
þann bað hann slíta
svefni mínum,
er hvergi lands
hræðask kynni.
10. †Lèt *hann* um sal minn
sunnanverðan
hávan brenna
her alls viðar:
þar bað hann einn þegn
yfir at ríða,
þanns mèr fœrði gull,
þaz und Fáfni lá.
11. Reið góðr Grana
gullmiðlandi,
þars fóstri minn
fletjum stýrði:
einn þótti hann þar
öllum betri,
víkingr Dana,
í verðungu.
12. Sváfu vit ok undum
í sæing einni,
sem hann minn bróðir
um borinn væri:
hvártki knátti
hönd yfir annat
átta nóttum
okkart leggja.
13. Því brá mèr Guðrún
Gjúka dóttir,
at ek Sigurði
svæfak á armi:
þar varð ek þess vís,
er ek vildigak,
at þau vèltu mik
í verfangi.
14. Munu við ofstríð
alls til lengi
konur ok karlar
kvikvir fœdask:
vit skulum okkrum
aldri slíta
Sigurðr saman.
Sökstu, gýgjarkyn!“

# DRÁP NIFLUNGA.

Gunnarr ok Högni tóku þá gullit allt, Fáfnis arf. Ófriðr var þá í milli Gjúkunga ok Atla; kendi hann Gjúkungum völd um andlát Brynhildar. Þat var til sætta, at þeir skyldu gipta hánum Guðrúnu, ok gáfu henni óminnisveig at drekka, áðr hon játti at giptask Atla. Synir Atla váru þeir Erpr ok Eitill; en Svanhildr var Sigurðar dóttir ok Guðrúnar.

Atli konungr bauð heim Gunnari ok Högna ok sendi Vinga eða Knefröð. Guðrún vissi vèlar ok sendi með rúnum orð, at þeir skyldu eigi koma, ok til jartegna sendi hon Högna hringinn Andvaranaut ok knýtti í vargshár. Gunnarr hafði beðit Oddrúnar, systur Atla, ok gat eigi; þá fèkk hann Glaumvarar, en Högni átti Kostberu; þeirra synir váru þeir Sólarr ok Snævarr ok Gjúki. En er Gjúkungar kómu til Atla, þá bað Guðrún sonu sína, at þeir bæði Gjúkungum lífs; en þeir vildu eigi. Hjarta var skorit ór Högna, en Gunnarr settr í ormgarð. Hann sló hörpu ok svæfði ormana, en naðra stakk hann til lifrar.

# GUÐRÚNARKVIÐA

## ÖNNUR

eða

## GUÐRÚNARKVIÐA HIN FORNA.

---

†Þjóðrekr konungr var með Atla ok hafði þar látit flesta alla menn sína. Þjóðrekr ok Guðrún kærðu harma sín á milli; hon sagði *hánum* ok kvað:

1. Mær var ek meyja,
móðir mik fœddi,
björt í búri,
unnak vel brœðrum:
unz mik Gjúki
gulli reifði,
gulli reifði,
gaf Sigurði.

2. Svá var Sigurðr
of sonum Gjúka,
sem væri grœnn laukr
ór grasi vaxinn,
eða hjörtr hábeinn
um hvössum dýrum,
eða gull glóðrautt
*of* grá silfri.

3. Unz mèr fyrmundu
mínir brœðr,
at ek ætta ver
öllum fremra:
sofa þeir nè máttut
nè of sakar dœma,
áðr þeir Sigurð
svelta lètut.

4. Grani rann at þingi,
gnýr var at heyra,
en þá Sigurðr
sjálfr *ne* kom*at*:
öll váru söðuldýr
sveita stokkin
ok of vanið vási
*und* vegöndum.

5. Gekk ek grátandi
við Grana rœða,
úrughlýra
jó frá ek spjalla:
hnipnaði Grani þá,
drap í gras höfði,
jór þ*at* vissi,
eigendr ne lifðut.

6. Lengi hvarfað*ak*,
lengi hugir deildusk,
áðr ek of frægak
fólkvörð at gram:
hnipnaði Gunnarr,
sagði mèr Högni
frá Sigurðar
sárum dauða:

7. „Liggr of höggvinn
fyr handan ver
Gothorms bani
of gefinn úlfum:
líttu þar Sigurð

á suðrvega!*
varga*r* þjóta
um veri þínum."

8. „Hví þú mèr, Högni!
harma slíka
viljalaussi
vill um segja?
þitt skyli hjarta
hrafnar slíta
víð lönd yfir,
en þú vitir manna!"

9. Svaraði Högni
sinni einu,
trauðr góðs hugar,
af trega stórum:
„þess áttu, Guðrún!
grœti at fleiri,
at hjarta mitt
hrafnar slíti."

10. Hvarf ek ein þaðan
andspilli frá,
á við les*a*
varga leifar:
*þa*r* heyr*ðak*
hrafna gjalla,
örnu gjalla
æzli fegna.
†Gerðiga*t* ek hjúfra
nè höndum slá
nè kveina um,
sem konur aðrar,
þá er sat*k* soltin
um Sigurði.

11. Nótt þótt*umk*
niðmyrkr vera,
er ek sárla satk
yfir Sigurði:
úlfar þótt*umk*
öllu betri,
ef þeir lèti mik
lífi týna,
†eða brendi mik
sem birkinn við.

12. Fór ek af fjalli
fimm dœgr talið,
unz ek höll Hálfs
háva þektak:
sat ek með Þóru
sjau misseri
dœtr Hákonar
í Danmörku.

13. Hon mèr at gamni
gullbókaði
sali suðrœna
ok svani danska:
*byrðu vit á borða
þat er þeir hörðusk
Sigarr ok Siggeirr
suðr á Fj*óni*.

14. Höfðu vit á skriptum
þat er skatar lèku
ok á hannyrðum
hilmis þegna:
randir rauðar,
rekka Húna,
hjördrótt, hjálmdrótt,
hilmis fylgju.

15. Skip Sigmundar,
skriðu frá landi,
gyltar grímur,
grafnir stafnar.
— þá frá Grimhildr,
gotnesk kona,
hva*r* ek *var*
*við* væra hyggj*u*.

16. Hon brá borða
ok buri heimti,
þrágjarnliga
þess at spyrja:
hverr vildi *mög*

*móður* bœta
eða ver veginn
v*i*f*i* gjalda.

17. Gerr lèzk Gunnarr
gull at bjóða
sakar at bœta,
ok it sama Högni;
hon frètti at því,
hverr fara vildi
vigg at söðla,
vagn at beita,
†hesti ríða,
hauki fleygja,
örum at skjóta
a*f* ýboga.

18. Valdarr Dönum
með Jarizleifi,
Eymóðr þriði
með Jarizskári.

19. Inn gengu þá
jöfrum líkir
Langbarðs liðar,
höfðu loða rauða,
s*tut*tar brynjur,
steypta hjálma,
skálmum gyrðir,
höfðu skarar jarpar.

20. Hverr vildi mèr
hnossir velja,
hnossir velja
ok hugat mæla:
ef þeir mætti mèr
margra súta
trygðir vinna,
*nè* ek trúa gerðak.

21. Fœrði mèr Grimhildr
full at drekka
svalt ok sárlíkt,
nè ek sakar mundak:
þat var um aukit
*ja*rðar magni,
sva*l*köldum sæ
ok són*ar*dreyra.

22. Váru í horni
hvers kyns stafir
ristnir ok roðnir,
ráða ek ne máttak:
lyngfiskr langr,
lands Haddingja
ax óskorit,
innleið dýra.

23. Váru þeim bjóri
böl mörg saman:
urt alls viðar
ok akarn *brunn*in,
umdögg arins,
iðrar blotnar,
svíns lifr soðin,
þvíat hon sakar deyfði.

24. En þá glęymd*ak*,
er getit h*a*fð*ak*,
öll jöfurs
*örlög* í sal:
kvámu konungar
fyr knè þrennir,
áðr hon sjál*f* mik
sótti at máli:

25. „Gef ek þèr, Guðrún!
gull at þiggja,
fjöld alls fjár
at þinn föður dauðan:
hringa rauða,
Hlöðvès sali,
arsal allan
at jöfur fallinn,

26. Húnskar meyjar,
þær er hlaða spjöldum
ok göra gull fagrt,
svá at þèr gaman þykki:
ein skaltu ráða

auði Buðla,
gulli göfguð
ok gefin Atla."
27. „Vilkat ek
með veri ganga
nè Brynhildar
bróður eiga:
samira mèr
við son Buðla
ætt at auka
nè una lífi."
28. „Hirðattu höldum
heiptir gjalda!
þvíat vèr höfum
valdit fyrri;
svá skaltu láta,
sem þeir lifi báðir
Sigurðr ok Sigmundr,
ef þú sonu fœðir."
29. *„Hirðattu bjóða
bölvafullar
þrágjarnliga
þær kindir mèr!
*mákat ek, Grimhildr!
glaumi bella
nè vígrisins
vánir telja;
†síz Sigurðar
sárla drukku
hrægífr *ok* huginn
hjartblóð saman."
30. *„Þann hefik allra
ættgöfgastan
fylki fundit
ok framast nökkvi:
hann skaltu eiga,
unz þik aldr viðr,
verlaus vera,
nema þú vilir þenna.*
31. Lönd gef ek enn þèr,
lýða sinni,
Vinbjörg, Valbjörg,
ef þú vill þiggja;
[*njóttu vel brœðra,
vers ok barna!*]
eigðu um aldr þat
ok uni, dóttir!"
32. *„Þann mun ek kjósa *þá*
af konungum
ok þó af niðjum
nauðig hafa:
verðra mèr
verr at yndi,
nè böl brœðra
at bura skjóli.
33. Hann mun Gunnar
grandi beita
ok ór Högna
hjarta slíta:
munkat ek lètta
lífs, *áðr hvatan
eggleiks hvötuð
aldri næmik."
34. Grátandi Grímhildr
greip við orði,
er burum sínum
bölva vætti
†ok mögum sínum
meina stórra.*

* * *

35. Senn var á hesti
hverr drengr litinn,
en víf valnesk
hafið í vagna;
vèr sjau daga
svalt land riðum,
en aðra sjau
unnir kníðum,
†en ina þriðju sjau
þurt land stigum.

36. þar hliðverðir
hárar borgar
grind upp luku,
áðr í garð riðum.

* * *
* * *
* * *

37. Vakti mik Atli,
en ek vera þóttumk
full ills hugar
at frændr dauða.
38. „Svá mik nýliga
nornir vekja:“
— vílsinnis spá
vildi at ek rèða —
„hugðak þik, Guðrún
Gjúka dóttir!
læblöndnum hjör
leggja mik í gögnum.“
39. „þat er fyr eldi,
er járn dreyma,
fyr dul ok vil
drósar reiði:
mun ek þik við bölvi
brenna ganga,
líkna ok lækna,
þótt mèr leiðr sèr.“
40. „Hugðak hèr í túni
teina fallna,
þá er ek vildigak
vaxna láta:
rifnir með rótum,
roðnir í blóði,
bornir á bekki,
beðit mik at tyggvak.
41. Hugðak mèr af hendi
hauka fljúga
bráðalausa
bölranna til:
hjörtu hugðak þeirra
við hunang tuggin,
sorgmóðs sefa,
sollin blóði.
42. Hugðak mèr af hendi
hvelpa losna,
glaums andvana
gylli báðir:
hold hugðak þeirra
at hræum orðit,
nauðigr ná
nýta ek skyldak.“
43. „þar munu seggir
um sæfang dœma
ok hvítinga
höfði næma:
þeir munu feigir
fára nátta
fyr dag litlu
dróttum bergja.“
44. Lágak síðan,
nè ek sofa vildak,
þrágjörn, í kör,
þat man ek görva.

* * *
* * *

# GUÐRÚNARKVIÐA

## HIN ÞRIÐJA.

Herkja hèt ambótt Atla, hon hafði verit frilla hans; hon sagði Atla, at hon hefði sèt Þjóðrek ok Guðrúnu bæði saman; Atli var þá allókátr. Þá kvað Guðrún:

1. „Hvat er þèr? Atli!
— æ, Buðla sonr!
er þèr hrygt í hug, —
hví *hlær þú æva?
hitt mundi œðra
jörlum þykkja,
at við menn mæltir
ok mik sæir.“

2. „Tregr mik þat, Guðrún
Gjúka dóttir!
*er* mèr í höllu
Herkja sagði:
at it Þjóðrekr
undir þaki svæfið
ok lèttliga
líni verðið.“

3. „Þèr mun ek alls þess
eiða vinna
at inum hvíta
helga steini:
at ek við *son* Þjóðmar*s*
þatki áttak,
er vör*ð* nè verr
vinna knátti.

4. Nema ek hálsaða
herja stilli,
jöfur óneis*an*,
einu sinni:
aðrar váru
*ok*krar spe*nn*ur,
er vit hörmug tvau
hnigum at rúnum.

5. Hèr kom Þjóðrekr
með þrjá tegu,
lifa þeir ne einir
þriggja teg*a* manna;
h*nö*ktu mik at brœðrum
ok at brynjuðum,
h*nö*ktu mik at öllum
*h*öfuðniðjum.

6. *Kemra nú Gunnarr,
kalliga*k* Högna,
sèka*t* ek síðan
svása brœðr:
sverði mundi Högni
slíks harms reka,
nú verð ek sjálf fyr mik
synja lýta.

7. Sentu at Saxa
sunnmanna gram!
hann kann helga
hver vellanda.“
— Sjau hundruð manna
í sal gengu,
áðr kvæn konungs
í ketil tœki.*

8. Brá hon til botns
björtum lófa,

ok hon upp um tók
jarknasteina:
„Sè nú, seggir!
sýkn em ek orðin
heilagliga,
hve sjá hverr velli.“

9. Hló þá Atla
hugr í brjósti,
er hann heilar sá
hendr Guðrúnar:
„Nú skal Herkja
til hvers ganga,
sú er Guðrúnu
grandi vænti.“

10. Sáat maðr armlikt,
hverr er þat sáat,
hve þar á Herkju
hendr sviðnuðu;
leiddu þá mey
í mýri fúla.
Svá þá Guðrún
sinna harma.

---

# ODDRÚNARGRÁTR.

Heiðr*ek*r hèt konungr, dóttir hans hèt Borgný. Vilmundr hèt sá, er var friðill hennar. Hon mátti eigi fœða börn, áðr til kom Oddrún, Atla systir; hon hafði verit unnusta Gunnars Gjúka sonar. Um þessa sögu er hèr kveðit:

1. „Heyrða*k* segja
í sögum fornum,
hve mær um kom
til Mornalands;
engi mátti
fyr jörð ofan
Heiðreks dóttur
hjálpir vinna.

2. Þat frá Oddrún,
Atla systir,
at sú mær hafði
miklar sóttir:
brá hon af stalli
stjórnbitluðum
ok á svartan
söðul of lagði.

3. Lèt hon mar fara
moldveg slèttan,
unz at hári kom
höll standandi:
†ok hon inn um gekk
endlangan sal,
svipti hon söðli
af svöngum jó,
ok hon þat orða
alls fyrst um kvað:

4. „Hvat er frægst
*hèr* á foldu?
eða hvat er hlez*t*
Húnalands?“
— „Hèr liggr Borgný
of borin verkjum,
vina þín, Oddrún!
vittu, ef þú hjálpir!“

5. „Hverr hefir ví*fi*
vamms um leitat?
hví eru Borgnýj*u*
bráðar sóttir?“
— „Vilmundr heitir
vinr haukstalda,
hann varði mey
varmri blæju
†fimm vetr alla,
svá*t* hon sinn föður leyndi.“

6. Þær hykk mæltu
þvígit fleira,
gekk mild fyr knè
meyju at sitja:
ríkt gól Oddrún,
ramt gól Oddrún
bitra galdra
at Borgnýju.

7. Knátti mær ok mögr
moldveg sporna,
börn þau in blíðu
við bana Högna.
Þat nam at mæla
mær fjörsjúka,
svá at hon ekki kvað
orð it fyrra:

8. „Svá hjálpi þèr
hollar vættir,
Frigg ok Freyja
ok fleiri goð:
sem þú feldir mèr
fár af höndum,
[*ok þú hnètt*
*til hjálpar mèr*]!“
9. „Hnèkat ek af því
til hjálpar þèr,
at þú værir þess
*verð* aldrigi:
hèt ek ok efndak,
er ek hinnig mælta*k*,
at ek hvívetna
hjálpa skyldak.“
10. *„Œr ertu, Oddrún!
ok ōrvita,
er þú mèr af fári
flest orð of kvað:
en ek fylgðak þèr
á fjörgynju,
sem vit brœðrum tveim
of bor*nar* værim.“
11. *„Man ek *enn,
hvat þú mæltir um aptan,
þá er ek Gunnari
gerðak drekku:
slíks dœmi kvaðattu
síðan mundu
meyju verða,
nema mèr einni.“
12. [*Mær tók at minnask*
*móðugs dags*,]
þá er öðling*a*
arfi skiptu:
þá nam at setjask
sorgmóð kona,
at telja böl
af trega stórum:

13. „Var ek upp alin
í jöfra sal
— flestr fagnaði —
at fíra ráði:
unda*k* aldri
ok eign föður
fimm vetr eina,
svá at minn faðir lifði.
14. þat nam at mæla
mál it efsta
sjá móðr konungr,
áðr hann sylti:
mik bað hann gœða
gulli rauðu
ok suðr gefa
syni Grimhildar.
15. *En hann Brynhildi
bað hjálm geta,
hana kvað hann óskmey
verða skyldu:
kvaða hann ina œðri
alna myndu
mey í heimi,
nema mjötuðr spilti.*
16. Brynhildr í búri
borða rakti,
hafði hon lýði
ok lönd um sik;
jörð dúsaði
ok upphiminn,
þá er bani Fáfnis
borg um þátti.
17. þá var víg vegit
völsku sverði,
ok borg brotin,
sú er Brynhildr átti;
vara langt af því,
heldr válítit,
unz *hon* þær vèlar
vissi allar.

18. þess lèt hon harðar
hefndir verða,
svá at vèr öll höfum
œrnar raunir:
þat mun á hölda
hvert land fara,
er hon lèt sveltask
at Sigurði.

19. En ek Gunnari
gatk at unna,
bauga deili,
sem Brynhildr skyldi.*
Buðu þeir Atla
bauga rauða
ok brœðr mínum
bœtr ósmár.

20. Bauð hann enn við mèr
bú fimtán,
hliðfarm Grana
ef hann hafa vildi;
en Atli kvazk
eig*a* vilja
mund aldrigi
at megi Gjúka.

21. þeygi vit máttum
við munum vinna,
nema ek hèlt höfði
við hringbrota;
mæltu margir
mínir niðjar:
kváðusk okkr hafa
orðit bæði.

22. En mik Atli kvað
*ava* myndu
lýti ráða
nè löst göra;
en slíks skyli
synja aldri
maðr fyr annan,
þar er munuð deilir.

23. Sendi Atli
áru sína
um myrkvan við,
mín at freista;
ok þeir kvámu þar,
er þeir koma ne skyldut:
þá er breiddu vit
blæju eina.

24. Buðu vit þegnum
bauga rauða,
at þeir e*kk*i
til Atla segði;
en þeir *hvatliga
heim skunduðu
ok óðliga
Atla sögðu.

25. En þeir Guðrúnu
görla leyndu því,
at hon heldr vita
hálfu skyldi.
Hlymr var at heyra
hófgullinna,
þá er í garð riðu
Gjúka arfar.

26. þeir ór Högna
hjarta skáru,
en í ormgarð
annan lögðu;*
nam horskr konungr
hörpu sveigja,
þvíat hann hugði mik
til hjálpar sèr
†kynríkr konungr
of koma mundu.

27. *Var ek enn farin
einu sinni
til geir*niar*ðar
görva drykkju:
nam ek at heyra
ór Hlèseyju,

hve þar af stríðum
strengir gullu.
28. Bað ek ambáttir
búnar verða,
vildak fylkis
fjörvi bjarga:
lètum fljóta
far sund yfir,
unz ek alla sák
Atla garða.
29. þá kom in arma
út skævandi
móðir Atla,
— hon skyli morna! —
ok Gunnari
gróf til hjarta,
svá at ek máttigak
mærum bjarga.
30. Opt undrumk þat,
hví ek eptir mák,
linnvengis bil!
lífi halda:
er ek ógnhvötum
unna þóttumk
sverða deili,
sem sjálfri mèr.
31. Sattu ok hlýddir,
meðan ek sagðak þèr
mörg ill um sköp
mín ok þeirra;
maðr hverr lifirat
at munum sínum.“
Nú er um genginn
grátr Oddrúnar.

# ATLAKVIÐA.

---

Guðrún Gjúka dóttir hefndi brœðra sinna, svá sem frægt er orðit. Hon drap fyrst sonu Atla, en eptir drap hon Atla ok brendi höllina ok hirðina alla. Um þetta er sjá kviða ort:

1. Atli sendi
ár til Gunnars
kunnan segg at ríða,
Knefruðr var sá heitinn;
at görðum kom hann Gjúka
ok at Gunnars höllu,
bekkjum aringreypum
ok at bjóri svásum.

2. Drukku þar dróttmegir
— en dyljendr þögðu —
vín í valhöllu,
*v*reiði sásk þeir Húna;
kallaði þá Knefröðr
kaldri röddu,
seggr inn suðrœni,
sat hann á bekk hám:

3. „Atli mik hingat sendi
ríða örindi
mar inum mèlgreypa
myrkvið inn ókunna:
at biðja yðr, Gunnarr!
at it á bekk komið
með hjálmum aringreypum
at sœkja heim Atla.

4. Skjöldu knegnð þar velja
ok skafna aska,
hjálma gullroðna
ok Húna mengi,
silfrgylt söðulklæði,
serki valrœ*na*,
dafar Darrað*ar*,
drösla mèlgreypa.

5. *Gu*ll lèzk ykkr ok mundu gefa
víðrar Gnítaheiðar,
af geiri gjallanda
ok af gyltum stöfnum,
stórar meiðmar
ok staði Danpar,
hrís þat it mæra,
er meðr Myrkvið kalla.“

6. Höfði vatt þá Gunnarr
ok Högna til sagði:
„Hvat ræðr þú okkr, seggr inn œri!
alls vit slíkt heyrum?
gull vissa*k* ekki
á Gnítaheiði,
þat er vit ættima
annat slíkt.

7. Sjau eigu vit salhús

sverða full,
hverju eru þeirra
hjölt ór gulli;
minn veit ek mar beztan,
en mæki hvassastan,
†boga bekksœma,
en brynjur ór gulli,
hjálm ok skjöld hvítastan,
kominn ór höll Kjárs,
†einn er minn betri
en sè allra Húna."

8. „Hvat hyggr þú brúði bendu,
þá er hon okkr baug sendi
varinn váðum heiðingja?
hygg ek, at hon vörnuð byði;
hár fann ek heiðingja
riðit í hring rauðum:
ylfs*kr* er vegr okkarr
at ríða örindi.

9. *Úlf*a*r mun*u* ráða
arfi Niflunga,
gamlir, grán*var*ðir,
ef Gunnars missir:
birnir blakkfjallir
bíta þreftönnum
g*u*mna g*rið*st*að*i,
ef Gunnarr ne kem*sk*at."

10. Niðjar hvöttu Gunnar
nè náungr annarr,
rýnendr nè ráðendr
nè þeir er ríkir váru;
kvaddi þá Gunnarr,
sem konungr skyldi,
mærr í mjöðranni
af móði stórum:

11. „Rístu nú, Fjörnir!
láttu á flet vaða
greppa gullskálir
með gumna höndum!
*vel skulum vín drekka,*
*veigar 'alldýrar,*
*þótt í heimi sè*
*hinztr fögnuðr.*"*

12. Leiddu landrögni
lýðar óneisir
grátendr gunnhvata*n*
ór garði h*eiman*;
þá kvað þat inn œri
erfivörðr Högna:
„Heilir farið nú,* horskir!
hvars ykkr hugr teygir."

13. Fetum lèt*u* frœknir
um fjöll at þyrja
mari 'na mèlgreypu
myrkvið inn ókunna;
hristisk öll Húnmörk,
þar er harðmóðgir fóru,
*v*ráku þeir vandstyggva
völlu algrœna.

14. Land sá þeir Atla
ok liðskjálfar djúpa,
— B*uðla* greppar standa
á borg inni há, —
sal um suðrþjóðum
sleginn sessmeiðum,
bundnum röndum,
bleikum skjöldum.*

15. En þar drakk Atli,
*ógnvaldr Húna,*
vín í valhöllu,
verðir sátu úti:
at varða þeim Gunnari,
ef þeir h*ans* vitja kvæmi
með geiri gjallanda
at vekja gram hildi.

16. Systir fann þeirra snemst,
at þeir í sal kvámu
brœðr hennar báðir,

bjóri var hon lítt drukkin:
„Ráðinn ertu nú, Gunnarr!
hvat muntu, ríkr, vinna
við Húna harmbrögðum?
höll gakk þú ór snemma!

17. Betr hefðir þú, bróðir!
at þú í brynju fœrir,
sem hjálmum aringreypum
at sœkja heim Atla:
sætir þú í söðlum
sólheiða daga,
[*víg at vekja,*
*völl at rjóða.*]

18. Nár nauð fölva
lètir nornir gráta,
Húna skjaldmeyjar
hervi kanna;
en Atla sjálfan
lètir þú í ormgarð koma:
nú er sá ormgarðr
ykkr um fólginn."

19. *Þá kvað þat Gunnarr,
gumna dróttinn:
„Seinat er nú, systir!
at samna Niflungum:
langt er at leita
lýða sinnis til,
of rosmufjöll Rínar
rekka óneissa."*

20. Sjau hjó Högni
sverði hvössu,
en inum átta hratt hann
í eld heitan;
svá skal frœkn
fjandum verjask,
*sem* Högni varði
hendr Gunnars.

21. *Fengu þeir Gunnar
ok í fjötur settu,
vin Borgunda,
ok bundu fastla:
frágu frœknan,
ef fjör vildi
Gotna þjóðann
gulli kaupa.

22. *Mærr kvað þat Gunnarr,
geirniflungr:
„Hjarta skal mèr Högna
í hendi liggja
blóðugt, ór brjósti
skorit baldriða
saxi slíðrbeitu,
syni þjóðans."

23. [*Vildu þeir vísa*
*vèlum beita,*
*er þræl œpanda*
*þrifu óvaran:*]
skáru þeir hjarta
Hjalla ór brjósti,
blóðukt ok á bjóð lögðu
ok báru þat fyr Gunnar.*

24. „Hèr hefik hjarta
Hjalla ins blauða,
ólíkt hjarta
Högna ins frœkna:
er mjök bifask,
er á bjóði liggr,
bifðisk hálfu meirr,
er i brjósti lá."

25. Hló þá Högni,
er til hjarta skáru
kvikvan kumblasmið,
klökkva hann sízt hugði:
[*hart hugakarn*
*hilmis tóku,*]
blóðugt þat á bjóð lögðu
ok báru fyr Gunnar.*

26. „Hèr hefik hjarta

Högna ins frœkna,
ólíkt hjarta
Hjalla ins blauða:
er lítt bifask,
er á bjóði liggr,
bifðisk svági mjök,
þá er í brjósti lá.

27. Svá skaltu, Atli!
ö*n*gu fjarri,
sem munt
menjum verða:
[*auð inum mikla,*
*þóttu oss myrðir,*
*munattu, vesall!*
*valda aldrigi.*]

28. Er und einum mèr
öll um fólgin
hodd Niflunga,
lifira nú Högni;
ey var mèr týja,
meðan vit tveir lifðum,
nú er mèr engi,
er ek einn lifik.

29. Rín skal ráða
rógmálmi skatna,
svinn, áskunna
arfi Niflunga:
í veltanda vatni
lýsask valbaugar,
heldr en á höndum gull
skíni Húna börnum."

30. [*Kallaði nú Atli,*
*konungr Húna:*]
„Ýkvið èr hvelvögnum!
haptr er nú í böndum."
*Ok meirr þaðan
menvörð bituls
dólgrögni dró
til dauðs skókr.

31. Atli inn ríki
reið Glaum*i*
*rönd*um sleginn
*ok* rógþornum;
sifjungr þeirra
Guðrún sigtíva
varnaði við tárum,
vaðin í þyshöllu.

32. „Svá gangi þèr, Atli!
sem þú við Gunnar áttir
eiða opt um svarða
ok ár of nefnda:
at sól inni suðrhöllu
ok at Sigtýs bergi,
hölkvi hvílbeðjar
ok at hringi Ullar!"*

33. Lifanda gram
lagði í garð þann
*skatna mengi,
er skriðinn var
innan ormum*
*eitrs of fullum,*
[*þeims geðhörðum*
*til hjarta grófu.*]

34. Heiptmóðr hörpu
hendi kníði
*enn einn Gunnarr,
glumdu strengir;
svá skal gulli
*í garði fjanda*
frœkn hringdrifi
við fíra halda.

35. Atli lèt
lands síns á vit
jó eyrskán
aptr frá morði:
dynr var í garði,
dröslum of þrungit,
vápnsöngr virða,

váru af heiði komnir.

36. Út gekk þá Guðrún
Atla í gögn
með gyltum kalki
at reifa *grun*drögni:
„Þiggja knáttu, þengill!
í þinni höllu
glaðr at Guðrúnu,
gnadda*t* niflfarn*ir*.“

37. Umdu ölskálir
Atla vínhöfgar,
þá er í höll saman
Húnar töldusk:
gumar gransíðir
gengu inn hva*t*ir,
**er* frá morði þeirra Gunnars
komnir váru ór myrkheimi.

38. Skævaði þá in skírleita
*drós skjöldunga*
*vær í valhöllu,*
veigar þeim at bera;
afkár dís jöfrum
ok ölkrásir valdi
nauðug nefföium,
en níð sagði Atla:

39. „Sona hefir þinna,
sverða deilir!
hjörtu hrædreyrug
við hunang of tuggin:
melta knáttu, móðugr!
manna valbr*á*ðir,
eta at ölkrásum
ok í öndugi at senda.

40. Kallara þú síðan
til knjá þinna
Erp nè Eitil,
ölreifa tvá:
sèra þú síðan
í sæti miðju
gulls miðlendr
geira skepta,
†manar meita
nè mara keyra.“

41. Ymr varð á bekkjum,
afkárr söngr virða,
gnýr und guðvefjum,
grètu börn Húna:
nema ein Guðrún,
er hon æva grèt
brœðr sína berharða
ok buri svása,
†unga, ófróða,
þá er hon við Atla gat.

42. Gulli seri
in gaglbjarta,
hringum rauðum
reifði hon húskarla:
sköp lèt hon vaxa,
en skíran málm vaða,
æva fljóð ekki
gáði fjarghúsa.

43. *Ölr* var Atli,
*ó*ðan h*a*fði* sik drukkit,
vápn hafði hann ekki,
varnaðit *við Guðrúnu:
opt var sá leikr betri,
þá er þau lint skyldu
*ást*um faðmask,
fyr*r* öðlingum.

44. Hon beð broddi
gaf blóð at drekka
hendi helfússi,
ok hvelpa leysti:
hratt fyr hallar dyrr
— ok húskarla vakti —
brandi brúðr heitum,
þau lèt hon gjöld brœðra.

45. Eldi gaf hon þá alla,
er inni váru,*
forn timbr fèllu,
fjarghús ruku:
bœr Buðlunga
— brunnu ok skjaldmeyjar
inni aldrstamar —
hnè í eld heitan.

46. Fullrœtt er um þetta,
ferr engi svá síðan
brúðr í brynju,
brœðra at hefna:
hon hefir þriggja
þjóðkonunga
banorð borit
björt, áðr sylti.

Enn segir glöggra í Atlamálum inum grœnlenzkum.

# ATLAMÁL

## HIN GRŒNLENZKU.

1. Frètt hefir öld ófu,
þá er endr um görðu
seggir samkundu,
sú var nýtt festum:
œxtu einmæli,
ygg*t* var þeim síðan
ok it sama sonum Gjúka,
er váru sannráðnir.

2. Sköp œxtu skjöldunga,
— skylduat feigir, —
illa rèzk Atla,
átti hann þó hyggju:
feldi stoð stóra,
stríddi sèr harðla,
af bragði boð sendi,
at kvæmi brátt mágar.

3. Horsk var húsfreyja,
hugði at mannviti,
lag heyrði hon orða,
hvat þeir á laun mæltu;
þá var vant vitri,
vildi hon þeim hjálpa,
skyldu um sæ sigla,
en sjálf ne komskat.

4. Rúnar nam at rísta,
rengði þær Vingi,
— fárs var hann flýtandi, —
áðr hann fram seldi;
fóru þá síðan
sendimenn Atla
um fjörð Lima,
þar er frœknir bjuggu.

5. Ölværir urðu
ok elda kyndu,
*u*gðu vætr vèla,
er þeir váru komnir:
tóku þeir fórnir,
er þeim fríðr sendi,
hengðu á súlu,
hugðut þat varða.

* * *

6. *Buðu þeir heim Högna,
ef hann þá heldr fœri,
— sýn var svipvísi,
ef þeir sín gæði; —
hèt þá Gunnarr,
ef Högni vildi,
Högni því *já*tti,
er hinn um rèði.

7. Kom þá Kostbera,
kvæn var hon Högna,
kona kapps gálig,
ok kvaddi þá báða;
glöð var ok Glaumvör,
er Gunnarr átti,
fèllskat saðr sviðri,
sýsti um þörf gesta.*

8. Báru mjöð mærar,
margs var alls beini,
fór þar fjöld horna,

unz þótti fulldrukkit;
[*risu at þat rekkar,*
*rèðusk þeir at sofna,*]
hjú gõrðu hvílu,
sem þeim hœgst þótti.
9. Kend var Kostbera,
kunni hon skil rúna,
innti orðstafi
at eldi ljósum:
gæta varð hon tungu
í góma báða,
váru svá viltar,
at var vant at ráða.
10. Sæing fóru síðan
sína þau Hõgni,
[*seint um sofnaði*
*svinn húsfreyja;*]
dreymdi dróttláta,
duldi þess vætki,
sagði horsk hilmi,
þegars hon rèð vakna.
11. „Heiman gõrisk þú, Hõgni!
hyggðu at ráðum!
— fár er fullrýninn, —
farðu í sinn annat!
rèð ek þær rúnar,
er reist þín systir:
bjõrt hefir þèr eigi
boðit í sinn þetta.
12. Eitt ek mest undrumk:
mákat ek enn hyggja,
hvat þá varð vitri,
er skyldi villt rísta;
†þvíat svá var ávísat,
sem undir væri
bani ykkarr beggja,
ef it bráðla kvæmið;
vant er stafs vífi,
eða valda aðrir.“
13. „Allar 'ru illúðgar;*
ákat ek þess kynni,
vilkat ek *læs* leita,
nema launa eigim;
okkr mun gramr gulli
reifa glóðrauðu,
óumk ek aldrigi,
þótt vèr ógn fregnim.“
14. [*Gáði þess lítt gõfugr,*
*gõrðisk at sofna,*
*þó var víf móðugt,*
*vildit mál fella:*]
„Stopalt munuð ganga,
ef it stundið þangat;
ykkr mun ástkynni
eigi í sinn þetta.
15. Dreymdi mik, Hõgni!
dyljumk þat eigi,
ganga mun ykkr andæris,
eða ella hræðumk:
blæju hugða*k* þína
brenna í eldi,
hryti hár logi
hús mín í gõgnum.“
16. „Liggja hèr línklæði,
þau er lítt rœkið,
þau munu brátt brenna,
þar er þú blæju *hugðir*.“
[*Gáði þess lítt gõfugr,*
*gõrðisk at sofna,*
*þeygi víf móðugt*
*vildi mál fella:*]
17. „Bjõrn hugða*k* hèr inn kominn,
bryti upp stokka,
hristi svá hramma,
at vèr hrædd yrðim:
munn oss mõrg hefði,
svá at vèr mættim ekki,
þar var ok þrõmmun
þeygi svá lítil.“

18. „Veðr mun þar vaxa,
verða ótt snemma,
hvítabjörn hugðir,
þar mun hregg austan."
[*Gáði þess lítt göfugr,*
*görðisk at sofna,*
*þó var víf móðugt,*
*lèta mál falla*:]

19. „Örn hugða*k* hèr inn fljúga
at endlöngu húsi
[*svörtum vængjum,*
*sveita var hann mjök stokkinn*:]
þat mun oss drjúgt deilask,
dreifði hann oss öll blóði;
hugða*k* af heitun,
at væri hamr Atla."

20. „Slátrum sýsliga,
sjám þá róðru,
opt er þat fyr öxnum,
er örnu dreymir;
heill er hugr Atla,
hvatki er þik dreymir."
Lokit því lètu,
líðr hver rœða.

21. Vöknuðu velborin,
var þar sams dœmi,
gættisk þess Glaumvör,
at væri grand svefna:
[*ljós rèð mjök letja,*
*lèta þó hinn segjask,*]
*treystisk* við Gunnarr
at fá tvær leiðir.

22. „Görvan hugða*k* þèr gálga,
gengir þú at hanga,
[*værir þú í öngan*
*ormgarð lagiðr*:]
æti þik ormar,
yrða*k* þik kvikvan,
görðisk rök ragna;
ráð þú, hvat þat væri!"

23. [„*Gnæfir gunnfani,*
*þar er þú gálga hugðir,*
*auðr mun ærinn,*
*þar er orma dreymir.*"
*Ljós rèð mjök letja,*
*lèta þó hinn segjask,*
*treystisk við Gunnarr*
*at fá tvær leiðir.*]

24. „Blóðgan hugða*k* mæki
borinn ór serk þínum,
— illt er svefn slíkan
at segja nauðmanni: —
geir hugða*k* standa
í gögnum þik miðjan,
emjuðu úlfar
á endum báðum."

25. „Rakkar þar renna,
ráðask mjök geyja,
opt verðr glaumr hunda
fyr geira flaugum."
[*Ljós rèð mjök letja,*
*lèta þó hinn segjask,*
*treystisk við Gunnarr*
*at fá tvær leiðir.*]

26. „Á hugða*k* hèr inn renna
at endlöngu húsi,
þyti af þjósti,
þeystisk of bekki:
bryti fœtr ykkra
brœðra hèr tveggja,
gerðit vatn vægja;
vera mun þat fyr nökkvi."

27. „*Akrar munu renna,*
*þar er þú á hugðir,*
*opt nema fœtr agnir,*
*er vèr akr göngum.*"
[*Ljós rèð mjök letja,*
*lèta þó hinn segjask,*
*treystisk við Gunnarr*
*at fá tvær leiðir.*]

28. „Konur hugðak dauðar
koma í nótt hingat,
værit vart búnar,
vildi þik kjósa:
byði þèr bráðliga
til bekkja sinna;
ek kveð aflima
orðnar þèr dísir."
29. „Seinat er at segja,
svá er nú ráðit,
forðumka för *þessa*,
alls þó er fara ætlat;
[*dugira meirr dylja,*
*daprt mun fyrir bera,*]
mart er mjök glíkligt,
at munim skammæir."
30. Lit*l*u er lýsti,
lètusk þeir fúsir,
allir upp rísa,
önnur þau löttu;
fóru fimm saman
— fleiri til váru
hálfu húskarlar,
hugat var því illa —:
31. *Gunnarr ok Högni,*
*Gjúka arfar báðir,*
Snævarr ok Sólarr,
synir váru þeir Högna;
Orkning þann hètu,
er þeim enn fylgði,
blíðr var börr skjaldar
bróðir hans kvánar.
32. [*Váru þeim í sinni*
*sendimenn Atla,*
*leiddu þá ór garði*
*lofða dísir báðar:*]
fóru fagrbúnar,
unz þau fjörðr skildi,
löttu ávalt ljósar,
lètu*t* at heldr segjask.
33. Glaumvör kvað at orði,
er Gunnarr átti,
mælti hon við Vinga,
sem henni vert þótti:
„Vetkat ek, hvárt verðlaunið
at vilja ossum,
glœpr er gests kváma,
ef í görisk nakkvat."
34. Sór þá Vingi,
sèr rèð hann lítt eira,
[*opin var þó ilkúð,*
*er hann orð mælti:*]
„Eigi hann jötnar,
ef hann at yðr lygi,
gálgi görvallan,
ef hann á grið hygði!"
35. Bera kvað at orði
blíð í hug sínum,
[*niðjum nábornum*
*nam hon gott gala:*]
„Siglið èr sælir
ok sigr árnið!
fari, sem ek fyr mælik!
fæst eigi því níta!"
36. Högni svaraði,
hugði gott nánum:
„Huggizk it, horskar!
hvegi er þat görvisk;
mæla þat margir,
missir þó stórum,
mörgum ræðr litlu,
hve verðr leiddr heiman."
37. Sásk til síðan,
áðr í sundr hyrfi,
þá hygg ek sköp skiptu,
skildusk vegir þeirra;
[*Glaumvör grátandi*
*gekk til hvílbeðjar,*

*Bera brosandi*
*borða nam rekja.*]
38. Róa námu ríki,
rifu kjöl hálfan,
beystu bakföllum,
brugðusk heldr reiðir:
hömlur slitnuðu,
háir brotnuðu,
gerðut far festa,
áðr þeir frá hyrfi.
39. Litlu ok lengra
— lok mun ek þess segja —
bœ sá þeir standa,
er Buðli átti;
hátt *grindr hriktu,
er Högni kníði;
orð kvað þá Vingi,
þaz án væri:
40. „Farið firr húsi!
— flátt er til sœkja,
brátt hefi*k* ykkr brenda,
bragðs sk*u*luð höggnir,
fagrt bað ek ykkr kvámu,
flátt var þó undir, —
ella hèðan bíðið,
meðan ek högg yðr gálga!“
41. Orð kvað hitt Högni,
hugði lítt vægja,
varr at vettugi,
er varð at reyna:
„Hirða þú oss hræða!
hafðu þat fram sjaldan!
ef þú eykr orði,
illt mundu þèr lengja.“
42. Hrundu þeir Vinga
ok í hel drápu,
exar at lögðu,
meðan í önd hixti.
[*Kallaði þá Högni*
*hárri röddu:*
„*Gestir 'ru í görðum,*
*þörf er góðs beina.*“]
43. Flyktusk þeir Atli
ok fóru í brynjur,
gengu svá görvir,
at var garðr milli;
urpusk á orðum
allir senn reiðir:
„Fyrr várum fullráða
at firra yðr lífi.“
44. [*Hló þá Högni,*
*stè of hrör Vinga:*]
„Á sèr þat illa,
ef höfðuð áðr ráðit:
enn eruð óbúnir,
ok höfum einn feldan,
lamdan til heljar,
liðs var sá yðars.“
45. Óðir þá urðu,
er þat orð heyrðu,
[*greppar gransíðir,*
*hátt um grenjuðu:*]
forðuðu fingrum
ok fengu í snœri,
skutu skarpliga
ok skjöldum hlífðusk.
46. Inn kom þá andspilli,
hvat úti drýgðu,
hátt fyr höllu
heyrðu þræl segja:
[„*Fær nú örn undorn,*
*skulum erfi drekka,*
*fara nú Niflungar*
*at vitja niflheima.*“]
47. Ötul var þá Guðrún,
er hon ekka heyrði,
[*stökk hon ór stóli*
*stríð í hug sínum*]:

hlaðin hálsmenjum,
hreytti hon þeim gervöllum,
slöngði svá silfri,
at í sundr hrutu baugar.

48. Út gekk h*o*n síðan,
yptit lítt hurðum,
fóra fælt þeygi,
ok fagnaði komnum:
hvarf til Niflunga,
sú var hinzt kveðja,
fylgði saðr slíku,
sagði hon mun fleira:

49. „Leitaða*k* í líkna
at letja ykkr heiman,
sköpum viðr manngi,
ok skuluð þó hèr komnir.“
Mælti af mannviti,
ef mundu sættask;
ekki at rèðusk,
allir ní kváðu.

50. Sá þá sælborin,
at þeir sárt lèku,
hugði á harðræði
ok hrauzk ór skikkju:
nöktan tók hon mæki
ok niðja fjör varði,
hœg varat hjaldri,
hvars hon hendr festi.

51. Dóttir lèt Gjúka
drengi tvá hníga,
bróður hjó hon Atla,
bera varð þann síðan,
†skapti hon svá skœru,
skeldi fót undan;
annan rèð hon höggva,
svá at sá upp reisat,
í helju hon þann hafði,
þeygi henni hendr skulfu.

52. Þjörku þar görðu,
þeirri var við brugðit,
þat brá um allt annat,
er unnu börn Gjúka:
†svá kváðu Niflunga,
meðan sjálfir lifðu,
skapa sókn sverðum,
slítask af brynjur,
höggva svá hjálma,
sem þeim hugr dygði.

53. Morgin mest vágu,
unz miðjan dag líddi,
†óttu alla
ok öndurðan dag;
fyrr var fullvegit,
flóði völlr blóði:
átján áðr fèllu,
*en* efri þeir urðu
Beru tveim svein*um*
ok bróð*ur* hennar.

54. Röskr tók at rœða,
þótt hann reiðr væri:
„Illt er um lítask,
yðr er þat kenna;
várum þrír tigir,
þegnar vígligir,
eptir lif*a* ellifu,
ór er þar brunnit.

55. Brœðr *fimm várum,
er Buðla mistum,
hefir nú Hel hálfa,
en höggnir tveir liggja;
*firðan *hafið* mik frændum,
fè opt svikinn,
senduð syst*ur* helju,
slíks ek mest kennumk.

56. Mægð gat ek mikla,
mákak því leyna,
kon*u* v*eg*liga,
knáka*k* þess njóta:

hljótt áttum sjaldan,
síz kom í hendr ossar, *
*hroldi hotvetna,
þat er til hags skyldi."

57. „Getr þú þess, Atli!
gerðir svá fyrri,
[*muntu lítt minnask*
*minna viðfara*:]
móður tókt mína
ok myrðir til hnossa,
svinna systrungu
sveltir þú í helli.

58. [*Stríð vár sterklig*
*stæra þú enn vildir*,
*bræðrum mínum báðum*
*bjóða til helfara*;]
hlœglikt mèr þat þykkir,
er þú þinn harm tínir,
goðum ek þat þakka,
er þèr gengsk illa."

59. „Eggjak yðr, jarlar!
auka harm stóran
vífs ins váliga,
viljak þat líta;
kostið svá keppa,
at klökkvi Guðrún!
sjá ek þat mættak,
at hon sèr ne yndit.

60. Takið èr Högna
ok hyldið með knífi,
skerið ór hjarta!
skuluð þess görvir;
Gunnar grimmúðgan
á gálga festið!
bellið því bragði,
bjóðið til ormum!"

Högni kvað:

61. „Gör, sem til lystir!
glaðr munk þess bíða,
röskr munk þèr reynask,
reynt hefik fyrr brattara;
höfðuð èr hnekking,
meðan heilir várum,
nú erum svá sárir,
at þú mátt sjálfr valda."

62. Beiti þat mælti,
bryti var hann Atla:
„Töku vèr Hjalla,
en Högna forðum!
högum vèr hálft yrkjum!
hann er skapdauði,
lifira svá lengi,
löskr mun hann æ heitinn."

63. Hræddr var hvergætir,
hèltat in lengr rúmi,
kunni klökkr verða,
kleif í rá hverja:
vesall lèzk, vígs þeirra
er skyldi vás gjalda,
ok sinn dag dapran
at deyja frá svínum,
†allri örkostu,
er hann áðr hafði.

64. Tóku þeir bras Buðla
ok brugðu til knífi,
œpti illþræli,
áðr odds kendi:
tóm lèzk at eiga
teðja vel garða,
vinna it vergasta,
ef hann við rètti;
†feginn lèzk þó Hjalli,
at hann fjör þægi.

65. Gættisk þess Högni
— gerva svá færi —
at árna ánauðgum,
at undan gengi:
„Fyrir kveð ek mèr minna

at fremja leik þenna;
hví mynim hèr vilja
heyra á þá skræktun?"
66. Þrifu þeir þjóðgóðan,
þá var kostr engi
rekkum rakklátum
ráð enn lengr dvelja:
hló þá Högni,
heyrðu dagmegir,
keppa hann svá kunni,
kvöl hann vel þoldi.

* * *

67. Hörpu tók Gunnarr,
hrœrði ilkvistum,
slá hann svá kunni,
at snótir grètu,
klukku þeir karlar,
er kunnu görst heyra,
— ríkri ráð sagði —
raptar sundr brustu.
68. Dó þá dýrir,
dags var heldr snemma,
lètu þeir á lezti
lifa íþrótta;
[*fáir munu frœknari*
*á fold koma*
*nè menn mœtri*
*fyrir mold ofan.*]
69. Stórr þóttisk Atli,
stè hann um þá báða,
horskri harm sagði
ok rèð heldr at bregða:
„Morginn er nú, Guðrún!
mist hefir þú þèr hollra;
sums ertu sjálfskapa,
at hafi svá gengit."
70. „Feginn ertu, Atli!
ferr þú víg lýsa;
á munu þèr iðrar,
ef þú allt reynir:
sú mun erfð eptir,
ek kann þèr segja,
ills gengsk þèr aldri,
nema ek ok deyja."
71. „Kann ek slíks synja,
sè ek til ráð annat
hálfu hógligra
— höfnum opt góðu —:
ma*n*i mun ek þik hugga,
mætum ágætum,
silfri snæhvítu,
sem þú sjálf vilir."
72. „Ón er þess eng*i*,
ek vil því níta,
sleit ek þá sáttir,
er váru sakar minni:
afkár ek áðr þótta,
á mun nú gœða,
hræfða*k* um ho*t*vetna,
meðan Högni lifði.
73. Alin vit upp várum
í einu húsi,
lèkum leik margan
ok í lundi óxum,
†gœddi okkr Grimhildr
gulli ok hálsmenjum;
bana mundu mèr brœðra
bœta aldrigi,
nè vinna þess ekki,
at mèr vel þykki.
74. Kostum drepr kvenna
karla ofríki,
í knè gengr hnefi,
ef kvistir þverra:
trè tekr at hníga,
ef höggr tág undan;
nú máttu einn, Atli!
öllu hèr ráða."

75. Gnótt var grunnýðgi,
er gramr því trúði,
sýn var sveipvísi,
ef hann sín gæði:
kröpp var þá Guðrún,
kunni um hug mæla,
lètt hon sèr gerði,
lèk hon tveim skjöldum.
76. Œxti hon öldrykkjur
at erfa brœðr sína,
samr lèzk ok Atli
at sína görva;
lokit því lètu,
lagat var drykkju,
sú var samkunda
við svörfun ofmikla.
77. Ströng var stórhuguð,
stríddi hon ætt Buðla,
†vildi hon ver sínum
*vinna* ofrhefndir,
lokkaði hon litla,
ok *lèku* við stokki:
glúpnuðu grimmir
ok grètu þeygi,
fóru í faðm móður,
frèttu, hvat þá skyldi.
78. „Spyrið lítt eptir!
spilla ætla*k* báðum,
lyst várumk þess lengi
at lyfja ykkr elli."
— „Blótt, sem vilt, börnum!
bannar þat manngi,
skömm mun ró reiði,
ef þú reynir gerva."
79. Brá þá barnœsku
brœðra in kappsvinna,
skipti*t* skapliga,
skar hon á háls báða.
Enn frètti Atli,
hvert farnir væri
sveinar hans leika,
er hann sá þá hvergi.
80. „Yfir ráðumk ganga,
Atla til segja,
dylja munk þik eigi
dóttir Grímhildar:
glaða mun þik minst, Atli!
ef þú gerva reynir;
vaktir vá mikla,
er þú vátt brœðr mína.
81. Svaf ek mjök sjaldan,
síðans þeir fèllu,
hèt ek þèr hörðu,
hefi*k* þik nú mintan:
morgin mèr sagðir,
man ek enn þann gerva,
nú er ok aptann,
áttu slíkt at frètta.
82. Maga hefir þú þinna
mist, sem þú sízt skyldir,
†hausa veiztu þeirra
hafða at ölskálum,
drýgða*k* þèr svá drykkju,
dreyra blètt ek þeirra:
tók ek þeirra hjörtu
ok á teini steiktak,
selda*k* þèr síðan,
sagðak, at kálfs væri.
83. Einn þú því ollir,
ekki rèttu leifa,
töggtu tíðliga,
trúðir vel jöxlum:
barna veiztu þinna,
biðr sèr fár verra,
hlut veld ek mínum,
hœlumk þó ekki."
84. „Grimm vartu, Guðrún!
er þú gera svá máttir,

barna þinna blóði
at blanda mèr drykkju;
snýtt hefir þú sifjungum,
sem þú sízt skyldir,
mèr lætr þú ok sjálfum
millum ills lítit."
85. „[*Heimskr vartu, Atli!*
*er þú horskri vel trúðir,*
*ætt þinni allri*
*hefik æ hatat;*]
vili mèr enn væri
at vega þik sjálfan,
fátt er fullilla
farit við gram slíkan.
86. Drýgt þú fyrr hafðir
þat er menn dœmi vissut*
heimsku harðræðis
í heimi þessum:
nú hefir þú enn aukit
þat er* áðan frágum,
greipt glœp stóran,
gert hefir þú þitt erfi."
87. „Brend mundu á báli
ok barið* áðr grjóti,
þá hefir þú árnat
þaztu æ beiðisk."
— „Seg þèr slíkar
sorgir ár morgin!
fríðra vil ek dauða
fara í ljós annat."
88. Sátu samtýnis,
sendusk fárhugi,
hendusk heiptyrði,
hvártki sér undi.
Heipt óx Hniflungi,
hugði á stórræði,
gat fyr Guðrúnu,
at hann væri grimmr Atla.
89. Kómu í hug henni
Högna viðfarar,
taldi happ hánum,
ef hann hefnt ynni.
Veginn var þá Atli,
var þess skamt bíða,
sonr vá Högna
ok sjálf Guðrún.
90. Röskr tók at rœða,
raktisk ór svefni,
kendi brátt benja,
bands kvað hann þörf önga:
„Segið it sannasta!
hverr vá son Buðla?
emka*t* ek lítt leikinn,
lífs tel ek ván önga."
91. „Dylja mun*k* þik eigi
dóttir Grimhildar,
látumk því valda,
er líðr þína ævi,
en sumu sonr Högna,
er þik sár mœða,
[*hefndi hann svá föður*
*ok frœnda sinna allra.*"
92. *Ræsir rammhugaðr*
*reis upp við bólstri,*
*keppa hann vel kunni,*
*krepti mund at undu:*]
„Vaðit hefir þú at vígi,
þótt værit skaplikt,
illt er vin vèla
þanns þèr vel trúir.
93. Beiddr fór ek heiman
at biðja þín, Guðrún!
leyfð vartu ekkja,
lètu stórráða:
varða ván lygi,
er vèr um reyndum,
fórtu heim hingat,
fylgði oss herr manna.

94. Allt var ítarlikt
um órar ferðir,
margs var alls sómi·
manna tiginna:
naut váru œrin,
nutum af stórum,
þar var fjöld fèar,
fengu til margir.

95. Mund galt ek mærri,
meiðma fjöld þiggja,
þræla þrjá tigu,
þýjar sjau góðar,
[*mara mèlgreypa,*
*marga hvelvagna,*]
— sœmd var at slíku —
silfr var þó meira.

96. Lèzt þèr allt þykkja,
sem ekki væri,
meðan lönd þau lágu,
er mèr leifði Buðli,
†gróftu svá undir,
gerðit hlut þiggja;
sværu lèztu þína
sitja opt grátna,
fann ek í hug heilum
hjóna vætr síðan."

97. „Lýgr þú nú, Atli!
þótt ek þat lítt rœkja,
heldr var ek hœg sjaldan,
hás þú þó stœr*ðir*:
börðuzk èr brœðr ungir,
báruzk róg milli,
hálft gekk til heljar
ór húsi þínu.*

98. Þrjú várum systkin,
þóttum óvægin,
fórum af landi,
fylgðum Sigurði:
skæva vèr lètum,
skipi hvert várt stýrði,
örkuðum at auðnu,
unz vèr austr kvámum.

99. Konung drápum fyrstan,
kurum land þaðra,
hersar oss á hönd gengu,
hræzlu þat vissi:
vágum ór skógi
þanns vildum sýknan,
settum þann sælan,
er sèr ne áttit.

100. Dauðr varð inn húnski,
drap þá brátt kosti,
strangt var angr ungri
ekkju na*fn* hljóta;
kvöl þótti kvikri
at koma í hús Atla,
átti áðr kappi,
illr var sá missir.

101. Komtattu af því þingi,
er vèr þat frægim,
at þú sök sættir
nè slöktir aðra:
vildir ávalt vægja,
en vætki halda,
kyrt um því láta,
*er konungr skyldit.*"

102. „Lýgr þú nú, Guðrún!
lítt mun við bœtask
hluti hvárigra,
höfum öll skarðan;
gör þú nú, Guðrún!
af gœzku þinni
okkr til ágætis,
er mik út hefja!"

103. „[*Unnak lítt lifnum,*
*liðnum skal þó sœmd vinna:*]
knör mun ek kaupa
ok kistu steinda,

vexa vel blæju
at verja þitt líki,
hyggja á þörf hverja,
sem vit holl værim."

104. Nár varð þá Atli,
niðjum stríð œxti,
efndi ítrborin
allt þaz rèð heita.
Fróð vildi Guðrún
fara sèr at spilla,
urðu dvöl dœgra,
dó hon í sinn annat.

105. Sæll er hverr síðan,
er slíkt getr fœða
jóð at afreki,
sems ól Gjúki;
lifa mun þat eptir
á landi hverju
þeirra þrámæli,
hvargi er þjóð heyrir.

# GUÐRÚNARHVÖT.

Guðrún gekk þá til sævar, er hon hafði drepit Atla; gekk *síðan* út á sæinn ok vildi fara sèr; hon mátti eigi sökkva. Rak hana yfir fjörðinn á land Jónakrs konungs; hann fèkk hennar; þeirra synir váru þeir Sörli ok Erpr ok Hamdir. Þar fæddisk upp Svanhildr Sigurðar dóttir; hon var gipt Jörmunrek inum ríkja. Með hánum var Bikki; hann rèð þat, at Randvèr konungs son skyldi taka hana. *Þetta ráð líkaði þeim vel inum ungum mönnum.* Þat sagði Bikki konungi. Konungr lèt hengja Randvè, en troða Svanhildi undir hrossa fótum. En er þat spurði Guðrún, þá kvaddi *hon* sonu sína.

1. Þá frá ek sennu
slíðrfengligsta,
trauð mál talið
af trega stórum:
er harðhuguð
hvatti at vígi
grimmum orðum
Guðrún sonu:

2. „Hví sitið,
hví sofið lífi,
hví tregrat ykkr
teiti at mæla?
er Jörmunrekr
yðra systur
unga at aldri
jóm of traddi.*

3. Urðuat it glíkir
þeim Gunnari,
nè in heldr hugðir,
sem var Högni:
hennar munduð it
hefna leita,
ef it móð ættið
minna brœðra
†eða harðan hug
Húnkonunga.“

4. Þá kvað þat Hamdir
inn hugumstóri:
„Lítt mundir þú
leyfa dáð Högna,
þá er Sigurð vöktu
svefni ór,
*saztu á beð,*
*en banar hlógu.*

5. Bœkr váru þínar
inar bláhvítu
roðnar í vers dreyra,
fólgnar í valblóði;
*svalt þá Sigurðr,*
*saztu yfir dauðum,*
*glýja þú ne gáðir,*
*Gunnarr þèr svá vildi.*

6. Urðu þèr *ballra*
brœðra hefndir
slíðrar ok sárar,
er þú sonu myrðir:
knættim *allir*
Jörmunreki
samhyggjendr

systur hefna.
7. [*Enn skal freista,*
*þótt færi sèm,*
*þótt mynim hljóta*
*hlut inn minna;*]
berið hnossir fram
Húnkonunga!
hefir þú okkr hvatta
at hjörþingi."
8. Hlæjandi Guðrún
hvarf til skemmu,
kumbl konunga
ór kerum valdi,
síðar brynjur,
ok sonum færði;
hlóðusk móðgir
á mara bógu.
9. † Þá kvað þat Hamdir
inn hugumstóri:
„Svá kem*sk* meirr aptr,
móður at vitja,
geirnjörðr hniginn
á Goðþjóðu:
at þú erfi
at öll oss dr*e*kkir,
at Svanhildi
ok sonu þína."
10. Guðrún grátandi
Gjúka dóttir
gekk hon tregliga
á tái sitja
ok at telja
tárughlýra
móðug spjöll
á margan veg:
11. „Þrjá vissa*k* elda,
þrjá vissa*k* arna,
var ek þrimr verum
vegin at húsi:
einn var mèr Sigurðr
öllum betri,
er brœðr mínir
at bana urðu.
12. Svára*ra*, sára*ra*
sákat ek nè kunn*ak*
*mann nè mey*
*á moldu svikinn;*
meirr þóttusk
mèr um stríða,
er mik öðlingar
Atla gáfu.
13. Húna hvassa
hèt ek mèr at rúnum,
*unga, ófróða,*
*þá er ek við Atla gat:*
máttigak bölva
bœtr um vinna,
áðr ek hnóf höfuð
af *H*niflungum.
14. Gekk ek til strandar,
gröm vark nornum,
vilda*k* hrinda
*h*ríðgri*m*d þeirra;
hófu mik, ne drektu,
hávar bárur,
því ek land um stèk,
at lifa skyldak.
15. Gekk ek á beð
— hugðak mèr fyr betra —
þriðja sinni
þjóðkonungi:
ól ek mèr jóð,
erfivörðu,
*erfivörðu,*
Jónakrs son*u*.
16. En um Svanhildi
sátu þýjar,
er ek minna barna
bazt fullhugðak:

